Heilaga Anda/ og leid mig fra Syndunum til Riettlætesins/ Fra Heluijte til Himerijkis/ fra Daudanum til Lijfsins/ fra þessa Heims Eymd til eilijfs Fagnadar.

## VII.

# Ein Hryggeleg Harmaklꜵg

un S. Augustini, Um mannlega Eymd og Hørmung / Huat aþ eirn og sier huør ætte ad uppvekiast til riettrar Jdranar.

Psalm. 90. Vorer Lijfdagar vara vm siøtijger Aar / og mest attatijger/ og þegar þeir hafa vered sem bester/ þa hafa þeir vered Mæda z Erfide/ þui þeir burt lijda fliott eins og þad vier værum fliugande.



DROTTEN Almattugur GUD/ huad er eg/ ad eg dyrfest ad tala vid þig? Hlijf þu mier DRottenn/ eg er roted illa lyktande Hræ/ ein Mad kafæda/ eitt fult Kier/ eirn eldfur Ellds Matur. Huad er eg? Hlijf þu mier DRotten/ eg er ein aum Manneskia/ fædd af Kuinnu/ lifE litla stund/ fullur Eymda/ eg er ein Manneskia huør ad er Hiegome/ huør ed burt þlytur

tur ad deya/sem huør ønnur aum Skiepna. Auvy Drottenn / huad er eg ? Eirn aumur Molldarauke Reidennar Barn ꝛ Blindleikans / Kier Saurgunar og Suivirdingar/ fæddur i Ohreinleikanum / lifande i Eymdenne/ ꝛ verd ad deyia med Sorg og Sut/ Eymd og Harmkuælum.

Auvy mig vesalan / hvad er eg ? Hvad verd eg ? Eitt Oþecktar Hræ/ Andstygdar Madkur / fullur med Fylu og Vidbiood/ Blindur / Aumur / Nakenn / Margskyns Eymdum og Hørmungum undergiefen/ vittande huørke minn Inngang nie Vtgang/ Vesæll og Daudlegur. Minn Alldur lijdur burt sem Reykur/mitt Lyf burthuerfur so sem skugge af Tungle/Ja/so sem Blomstur a Akre þad visnar / i Dag er þad mz synū Bloma/ enn a Morgun er þad vised.

Ad visu myner Lyfdagar eru aumer/ mitt Lyf er so sem Þurfamans Lyf/ þess ellra þad verdur/ þess meyr fer þui aptur/ Þess leingra þad er/þess nælægra er þad Daudanum. Eitt fanyitt forgengelegt Lyf/ fullt af daudans Snørum. J Dag er eg gladur/enn a Morgun er eg hryggur/J Dag stend eg/enn a Morgun er eg fallenn/ J Dag er eg lifande/enn a Morgun kann skie Daudur/ J Dag er Lukann med/ enn a Morgun kiemur Olukann/ J Dag er eg hlægiande/enn a Morgun grætande. Alle huad eg giøre þad er fanyitt og fallvallt/ og varer skamma stund/ og er Hiegoome.

Ameſt geingur a Otteñ eda Hrædſla/ Ameſt er a Ferdum Hungur eda Þorſte/ hier er Hite/ þar er Kulde/ hier er Sorg/ þar er Soott/ Þar ofañ a kiemur ſa grime Daude/ huør ed daglega margū burt ſuipter/ ꝺꝺi eñ þa minſt varer. Eirn deyr af Kulda/ añᵛ af Þyſtu z verkiū/ eirn ſerſt af Hūgre/ annar af Þorſta/ eirn Druknar/ annar ver dur Heingdꝛ/ eirn verdur brendur til Dauds annar ſtyrs i Hel/ eirn rijfa olm Dyr/ annar verdur veigenn / eirn hrapar og ſellur til Dauds/ ad ꝺdrum kiemr ſkyndelegur Stade/ huar af hañ hlytur ad enda þetta Lyf.

Og ſram yfer allt þetta / þa er ſo þad hørmulegaſt / ad þar er ecke vyſſara enn Daudenn/enn eckert ovyſſara eñ Daudaſtund eñ/ og þegar Madur huxar ad hann ſtande ſem beſt/ þa er hann um koll/ og øll hanns Von ſeþur þa enda. Þuiad einngeñ Madur veit/ huørar/huar/ eda med huørium hætte han mun deyia / enn þad veit hañ vel / ad hann verdur ad deyia.

DRotten alijtt þad/huad ſtoora Eymd Manneſkiann a/ i huerre eg eirnenn veſkeſt/ ſo hrædeſt eg ecke/ huad þung er þeſſe Neyd ſem eg lijd / ſo er eg gladur og katur/ og kalla ecke til þijn.

Enn nu Drotten vil eg akalla þig/ ma dur eñ eg ſorgieng/ ſo ad eg ſordiarſeſt ecke/

ecke / helldur ad eg mætte blijfa i þier. DROTTENN lijt þú til miñar Eymdar / eg skammast mijn ecke ad medkieña fyrer þier / ad eg er einskis verdur / Drotten minn Styrkur / hialpa þu mier / so ad eg meige vidriettast / kom mier til Hialpar / so ad eg verde holpenn / DROttenn sem ert mitt Lios / kom / suo ad eg meige verda siaande / DROTTENN sem ad ert mijn Vegsemd / byrtstu mier suo ad eg meige glediast / byrtstu mier DROTtenn sem ert mitt Lijf / so ad eg mætte lifa.

## VIII.

## Enn ein hryggeleg Kløgun Augustini, vm Neyd og Eymd þessa Lijfs / hvad oss ei ad uppvekia til Bœnanar.

Apocal. 18. Ganged vt af Babylon / mitt Folk / so þier verded ecke hlutt takarar hennar Synda / vppa þad / þier fæed ecke noeckud af hennar Plægum.

DROTTENN Gud / þreyttur og mæddur er eg af Eymdum þessa Lyfs / Huad þetta

Lijf er eitt vesallt lijf/ballvallt lijf/ohreint Lijf/ z i allā mæta aumt z Sorgarlegt. Pad er eitt soddan Lijf/ þar sē þeir Vondu hafa Rijke / og þeir Drambsømu Drottna. Þetta Lijf er fullt Hørmungar og Eymdar/ z ætte med rettu ecke ad nefnast Lijf/ helldz Daude/ Þuiad margfaldlega og a huøriu Au gnabragde deyium vier þar inne i allskyns Eymdum/ Deykleyka og Vesælld.

Huørnen kann vort Lijf i þessum Heime Lijf ad heita ? Þuiad skyndelega verdur eirn og annar siukur/og þær daudlegar Me insemder/ annar deyr af Pijnu z Verkium/ eirn vanmegnast af Hita/ annar skadast af Kulda/ eirn liper i Ofneytslu/ annar deyr i Hungre/ eirn fordiarfast i sijnum Hiegoma og Heimsku/ annar af Sorg og Hrygd/eirn drambar af sijnum Rijkdome/annar verdur vegna Fatæktar forsmædur. Eirn vanbrwk kar Æsku sijna/ annar er ørvasa af Elle sin ne. Eirn er snar og hrumur / annar heuur þa Neyd og Plagu. Eg ofan a allt þetta kiemur ad sijdustu sa grimme Daude/ z gior er enda a allre Hiegoma Glede þessa auma Lijfs/ Suo ad þa Madurenn er Daudur/ þa er so sem hann hafe alldrei hier i Heiti me vered.

Nu fo ad þetta Daudlega Lijf / og þes se lifande Daude/ sie hladen med soddan Eymdum / og ødrum myklu fleire/ þa eru þo allmarger ( þui verr ) sem læta þessa Heims Lyst og Hiegoma sigra sig og blinda

Med fanytre og falskre Von/ jæ so er þessa Heims Nattura aum og suksamleg/ ad Synner þessarar Veralldar sia og merkia sialfþer þetta/ þo samt eru þeir oteliannlega marger sem so eru heimsker og blinder / ad þr læta fanyta Heimsins Kysting leida sig og a Tælar draga. Enn sæler eru þeir ( þo þeir sie ei marger ) sem ecke treysta uppa þetta stundlega fallvallta Lijf / helldur forsmaa Heimsins Glede/ og fordast hans samlag/ so þeir verde ecke med hønum fordæmder.

HErra JESV Christe/ eg bid þig/ Kienn mier ad þeckia Eymd og Hiegoma þessa Heims / og Daglega hugsa um mijna Dauda Stund/ forda mier Villustigum þessarar Veralldar / og greid þu mijnar Fætur a Veg Fridarens. Hialpa mier ad lifa i daglegre Jdran og ad eg sie vakande/ so ad eg med Fegnude mætte vænta þijn/ a ollum stundum og Tijmum/ A M E N.

## Hiartnæm Bæn S. Augustini/ J hverre eitt sorgbited Hiarta klagar sijna Neyd fyrer Herranū Christo/ og bidur um hialp z Huggun.

Matth.

Matth. 11. Komed hier til mijn/ aller þier sem erfided og Þunga erud þiader/ eg vil Endurnæra ydur.

JEsu Christe minn Skapare og Lausnare / þu ert eilyflega goodur enn eg er fullkomlega jllur og aumur Þu ert Froomur/enn eg er Ogudlegur. Þu ert Heilagur/enn eg er Aumur z Syndugur. Þu ert Riettlætur/ enn eg er Ranglætur. Þu ert Lioosed/ enn eg er Blindur/og Skilningslaus. Þu ert Lyfed/ enn eg er Daudlegur. Þu ert Læknarenn/ enn eg er fullur Særa z Siukdooms. Þu ert Fögnudurinn/ enn eg er hladenn af Hrygdum og Eymdum. Þu ert sa Ædste Sannleikurenn/enn eg er einskis verdur/og ecke anad enn Hiegoome/ suo sem aller adrer menn a Jördunne.

Aumur/huad skal eg seigia minn Skapare? Heyrdu þo minn Skapare/eg er Skiepna þijn og nu strax fer eg j burt/eg er Skiepna þijn og nu Dey eg/þijn Skiepna er eg/z nu verd eg ad önguu. Þijn Skiepna er eg/ og þijnar hendur hafa tilreidt mig/ Ja þær þijnar Hendur hafa skapad mig / sem fyrer mig voru negldar a Krossenn. DRottenn/ yfer gief ecke Verk og smijde þinna Handa/ og lijtttu a Sarenn j þijnum Hondum.

DRottenn Gud minn/ Sia þu/ a Hendur þijnar er eg skrifadur/ les þa sömu Skrift/ og hialpa mier.

Siaͤ þu/ eg þyn Skiepna andvarpa til þyn/ Þu ert minn skapare/ Endurnæꝛ þu mig Siaͤ/ eg skiepnu Barn þitt kalla til þyn/ þu ert Lyfsed/ lyfga þu mig. Siaͤ/mig Skiepnu þyna langar til þyn/ þu ert minn skapare/ hialpa þu mier. Lyfna þu mier DRottenn/ þuiad myner Dagar eru so sem ekert. Huad er Manneskian þess/ ad hun dyrfest ad tala vid sinn Skapara? Lyfna þu Þræle þynum / sem dyrfest ad tale vid sodban Herra.

Naudsyn brytur Løg / Naudsyn kiemur mier til ad tala vid þig/ su Neyd sem eg lyd/ hun kiemur mier til ad kalla/ eg er Siuk-kur og Saar/ þar þyrer kalla eg aa Læknarann/ eg er blindur/ þar þyrer flyt eg mier til Lioss sens/ og er Daudur/ þar þyrer andvarpa eg epter Lyfenu / þu ert Læknarenn / þu ert Liosed/ þu ert Lyfsed.

O JESV af Nazareth / Myskuna þu mier. O þu Sonur Davids/ Myskuna þu mier. Þu Brunnur allrar Nadar z Gixskn/ Myskuna þu mier / Bænheyr þu þann Siuka sem kallar til þyn. DROTTENN þu hid sanna Lios/sem þar geingur fram un hia/ byd epter þeim Blinda/ sem þig akallar. Kiett vt þyna Hønd/ suo ad eg kome til þyn/ og ad eg i þynu Liose mætte þar ad siaͤ þad eilyfa Lios.

X. Tau

# X.

Taulerus.

## Ein Hiartanleg Bæn/ i hu-
ørre Jdrande Mans Hiarta med Ann-
gre og Anduarpan/ og sønu Lytelæte/ med-
kiennir sijnar Synder / og bidur um
Naad og Myskun.

Psalm. 32. Eg heþe sagt/ eg vil játa þyrer DROTTNE minn Misgiørning/ þa þyrergaþstu mier Rangláte minnar Syndar.

ALmáttugur/ Giæskuþullur og Myskunsamur Fader / eg Armur aumur Syndare/ kiem til þijn med Hiartans Audmykt og Lytelæte/ og þell hier þramm þyrer þier/ med sønnu Trunadar trauste til þinnar Naadar og Myskunar / og vidurkienne þyrer þier allar mijnar Synder og Misgiørder/ med huørium eg heþe allt til þessarar Stundar styggt og moodgad þig/ minn Himneske goode Fader/ med þui / eg heþe ecke skammast mijn ad dryia þær Synder og Skammer/ þyrer huøriar þinn elskulegur Sonur heþur orded ad lijda sára Pijnu og beiskann Dauda/ en þær skylldu læknast / þo tiaer mier ecke ad leyna þeim.

Jeg

Jeg jaata eirnenn og nidurkiene fyrer þier/ þu millde og Myskunsame GUD og Fader/ mitt hid mykla og margfallda Ohacklæte/ ad eg alllt til þessarar Stundar / hef vered miøg ohacklætur vid þig / og þinn elskulegañ Son / fyrer alla þyna Aast og Elsku/ fyrer alla þyna Naad og Myskun og Velgiørninga þa sem þu hefur veitt mier/ i þui þu hefur so langañ Tyma med stoorre Þolenmæd vm lided mynar Illskur og Synder/ og þolad myna margfallda Ohlydne/ sem eg hefe syndt þier. Ad vysu þu hefur so Myskunsamlega beded epter mier/ so ad eg skyllde giøra Boot og betran/ og ad þu mætter eignast Hiarta mitt/ og Tilreida þier þar Bwstad/ og veita þui Naad z Myskun. Minn Gud og DROTTenn/ huørsu opt hefur þu ammiñt mig/ og klappad a mynar Hiartans Dyr/ med þynu Orde/ og þynum Heilaga Anda? Huørsu opt hefur þu leidt og lockad mig med þynum Velgiørningum? og med Krosse og Mootgange viliad koma mier til ad ydrast mina Synda? Eñ eg hefe ecke vpplokid fyrer þier/ helldur hefe eg snymed vid þier Bakenu/ þetta hefur þu allt Þolennmoodlega vmlided.

Huørsu opt hefur þu mætt med riettre kasta mier nidur i Helvytis Afgruñ/ eñ þu hefur þo hlyfdt mier/ af þinne Naad og Myskun. Goode Fader / Þad være eingeñ Vndur/ þo mitt Hiarta bryste i sundur af Sorg og Harme/ þa eg huxa vm slykt. Ad

kysw

vijsu/ Himneske Fader/ eingenn Helvijtis Pij-na og Plaaga er suo stoor og þung/ ad eg hafe ecke enn þyngra forþient/ med mijnum Syndum. Ecke er eg verdugur ad kallast þijn Skiepna. Ecke er eg verdugur ad gaanga vm Jørdena/ eda ad hun giefe mier mijna Atvinnu. Þad være eingenn Vndur/ þott allar skiepnur hefnde aa mier/ þeirrar Illsku og Ohlydne/ sem eg hefe synt þier DRottenn/ med mijnum margfølldum Syndum.

Enn nu goode Myskunsame Fader/ bid eg þig/ Myskuna þu mier. Eg bid þig/ Lyttu til mijn Myskunar Augum þijnum/ og laat opid vera þitt Myskunar Hiarta fyrer mier. Tak mig aptur til Naadar/ og fyrergief mier þad/ ad eg hefe suo leinge dreiged vndann ad snua mier til þijn. Laat vpp þitt Fødurlegt Hiarta/ lijkna og styrk mig med þinne Naad og Myskun. DRottenn minn Gud/ med þui þu hefur nu suo leinge vid mig frestad forþientre Refsingu Syndanna/ þa laat þu nu frammkoma þijna Naad/ og verka þu med mier þad/ huar til þu hefur mig fra Upphafe Vtvaled.

## XI

Taulerus.

# Ein onnur Bæn/ J huorre Madur med Angre og Ydran medkien̄er Synder sijnar/ og bidur vm Naad og Fyrergiefning.

Psalm.

Psalm. 103. So sem Faderen̄ sier Aumur a Barnenu/ suo Myskunar DRottē̄ þeim sem hn̄ ottast.

ÞEi mier Vesølum Mañe ꝛ Aumum Syndara/ þuiad eg heffe þig DROTTenn min̄ Giæskufulla og gooda Fødur yfergiefed/ þu sem alldrei hefur lint ad veita mier Aast og Elsku/ og allskyns Velgiørder. Vei mier/ ad eg heffe mitt Hiarta aptur byrgt ꝛ læsted/ þar jnne þu villder hafa bwed/ og eg heffe fanngad þad/ med mørgum Løstum og skæmum Syndum. Eg er orden̄ Rier Syndaña/ Herberge hins ohreina Anda. Auvy DROttenn/ eg jata og medgeing/ ad eg er sa hellste a medal allra Syndugra j Heimenum. En̄ ecke ad sydur trwe eg og treyste vppa þijna stooru Naad og Myskun. Þuiad/ enn þo Synder mijnar sieu margar/ og Oteliãlegar/ þa veit eg þo ad Myskun þijn er mørgum Þusundum meyre ꝛ stærre/ ꝛ hefur øngvan̄ Enda. Eilijfe Fader/ ef ad þu villt/ þa kantu ad Hreinsa mig. Lækna þu Saal mijna/ þuiad eg medgeing ad eg heffe Syndgad fyrer þier. Minnugur vertu DRotten̄ þeirra Huggunarfullu Orda sem þu hefur talad fyrer þin̄ Spaamannsins/ seigiande. Þu hefur Hoorast med þijnum Radgiafennum/ en̄ þo samt/ kom þu aptur til

myn/ þa vil eg taka vid þier.

Þu Fader allrar Naadar og Myskunar yppa þetta þitt Huggunarsälegasta Ord þa treyste eg/ og sny mier nu til þyn / aff øllu Hiarta/ eins so sem hefder þu þad allema til myn talad/ og mig allema kallad þar mz til Ydranar. Þviad eg er þesse þin Ohre ina Saal. Eg er sa onyte Fortapade Sonr sem so hervelega hefe snued mier fra Fødur num Kiossins/ aff hvørium ad allt kiemur þad sem gott er/ og eg er orden suo sem vill luraffande Saudur. Eg hefe misst/ og hefe eydt og vppsooad øllum þeim ägiætū Gaffum og Giædū/ sem þu hefur giefed mer/ aff þinne milldre og Myskun. Þig hef eg yffergiefed/ þu Brunnur lifanda Vatns/ en hef grafed mier ānarstadar Þyttu z Dyke. Eg hefe hafft lyst z Gyrnd til þessarar Veralldar/ hvar jike ecke finnst Hialp nie Hugg un/edur nockur lyffgan/ þviad øll vellysting þessarar Veralldar hun er forgeingeleg/ og lydur fliott burt sem Reykur. Þig hef eg yffergiefed þu lyfsins braud / z hefe eted Draff med ohreinum Svynum/ þviad eg hef þe epterfylgdt Gyrndum myns Hollds/og ls þad suo sem ein skynlaus Skiepna. Þig hef eg yffergiefed/ þu þinn allra bezte Almættu ge eilyfe Gud/ og snuid mier til Jardlegra forgeingelegra Hluta. Þui er eg vorden ber og naken/suo sem sa fortapade Sonur var/ eg er orden Aumur og ohreinn/og blyt sem

annad skynlaust Dyr ad rotna z deysa j mi=
num Syndum og ohreinendum. En nu
bid eg þig Myskunsame Fader/ ad þu mikl=
est ecke leingur æ soddann Illsku og Syn=
der/sem eg hefe giørdt þier æ moote/ helld=
ur læt mig nioota þins elskulega Sonar
JEsu Christi vors DROTTens og Laus=
nara/ A M E N.

## XII

## Ein Agiæt Bæn/ j huørre ad Sorgfullt sundurknosad Hiarta le=ggur allar sijnar Synder/med riettre Tru vppa Herran Christum.

1. Johan. 1. Cap. Blooded Jesu Christi Guds Sonar þad hreinsar oss af øllum vorum Syndum.

### Taulerus.

Hvørt skal eg flya Aumur Madur hladenn med otellanlegum og stoo=rum Syndum? Eg suara vmer sialfur / ecke annarstadar enn til hyn þu sæte Herra Jesu Christe. Þar fyrer Drottenn Jesu/ teck eg nu allar mi=nar Synder/allt mitt oþacklæte/allar mijn=ar holldlegar Gyrnder/ alla Reide/alla O=hlyþne/allt Gæleyse/alla Illsku/allt mitt

Yoranarleyse/ allar vondar Gyrnder/ og kasta þeim j þañ diupa Afgrunn þinnar Gudoomlegrar Nꝏdar og Myskunar. Ad vij su/ eg legg þær j þijnar Heilǿgu bloodugu Ynder/ og j þyn Saar/ huǿrium þu særdur varst mier til Saluhialpar. Og eg bid þig minn Gud/ ad þu villder þyrer þitt Dyrmæta saklausa Blood/ þuo og hreinsa mig af ǿllu mijnu Ranglæte/ suo ad þu minnist þess alldrei framar meir.

Goode Herra JEsu/ mijn einka Hialp og Huggun/ Sia/ eg kiem til þijn med riettu Hugaraangre/ elskande þig af Hiarta/ vilia nꝍ allt þad flyia og fordast sem mig skilur vid þiñ Kiærleika/ vppa þad eg mætte ver da eitt med þier / j Huganum/ j vilianñ og Kiærleikanum. Þu ert mijn einka von/ mitt einka Traust/ mitt einka Athuarf og hæle. Og þo Synder mijnar skurle mig fast lega/ og niðurþryckie mier/ þa gledur mig meyr þijn oseigianleg Giæska/ og su heilaga Armnan/ og Forþienan þinnar Pijnu/ hun ei etter mig og vidhialpar. Ad vijsu miñ Laut snare/ allt þad eg hefe illt giǿrt z syndgad/ þad hefur þu med þijnu bitra Dauda bætt og bitalad. Huad hellst mig brestur/ þad hefur þu med þinne Holldgan / Pijnu og Dauda mier noglega vtuegad og afrekad. Og þo ad mijnar Synder sieu otelianlegar og stoorar/ þa eru þær ecke ad reikna / hia

þinne

þinne miſkellre oſeigianlegre Myſkun.

Par þyrer ſet eg allt mitt Trunadar Trauſt til þinnar oſeigianlegrar Giæſku og Godgierndar / lꜳt mig ecke verda Fortapadan/ med þui þu heþur ſkapad mig epter þinne eigenn Mynd/ huor Mynd/ enn þo ad hun ſie i mier þyrer Brot og Synd vorra þyrſtu Forelldra / þordiǿrþud og aþſkapleg orden/ þa heþur þu þo ſamt hana endurnyad i Endurþædingar Laug og i Krapte þyns Heilaga Bloods/ huar med vier ordner erū Sluttakarar Gudlegrar Natturu / z erum aþ vorum Himneſka Fǿdur medtekner/ſo ad vier erum nu GVDs Bǿrn / og Erþingiar þyns Rykis/og þyner Samarþar i Voneſe.

Pad er myn Tru/og þad er mitt Trauſt/ ad þu muner ecke ſkuþa mier i burt þra þier/ þuiad þu heþr tekid a þig mitt Holld z Blood/ og ert orden min̄ Broder/ecke til ann nars enn til þeſſ / ad þu villt ecke yþergieþa mig/ Jꜳ/ eg vona og treyſte þar vppa / ad þu muner ecke þordæma mig/med þui ad þu heþur ſo dyrt keypt mig/ ad þu heþur þynu Heilaga Blode vthellt til Fyrergieþningar minna Synda / huort Blod ad ſo er Dyrmætt og Krǿptugt ad einaſta eitt Bloddrope kann allan Heimen Saaluholpen ad giǿra.

HERRA JESV Chriſte/ eg bid/lꜳt þitt heilaga dyrmæta Blood verda mier ſo krǿptugt / ad eg med ǫllum þeim ſem

þu hefur leyst / mætte vegsama ꝛ prijsa þig ad eilijfu / AMEN.

## XIII.

S. Augustinus.

# Ein Hiartnæm Bæn um

### Beiran Lijfsdaganna og good Verkenn.

1. Timoth. 1. Frem þig og idka i godum Riddaraskap / hafande Trwna og eina goda Samuisku.

DROTTENN minn GUD / hialpa þu mier / suo ad mig lange af Hiarta epter þier / og ad eg leite vandlega ad þier. Lat mig finna þig med Fognude / og elska þig af Hiarta. Veit þu mier þad / ad eg vegna þinnar Aastar og Elsku / hate allar Synder. DROTTENN minn Gud / lat mig alla tijma lifa i sannre Jdran og hafa daglega fundurkramed Hiarta / hia spa mier til ad Augu mijn græte sijnar Synder / og ad Hendur mijnar sieu ölmusugiarnar. Minn Kongur / kiaf þu ni-dur

dur Holldſins Gyrnder i mier / og kueik
vpp i mier brennande Elſku og Aaſt til
þyn. Minn Frelſare / tek burt fra mier
Anda Metnadar og Drambſemennar / og
fyll mitt Hiarta med ſannarlegt Lijtelæ-
te. Miñ Lauſnare / tak burt fra mier alla
illa Reide / og hneygdu Hiarta mitt til
heilagrar Volenmæde og Fridar. Minn
Skapare / burt takta vr mijnu Hiarta allt
gamallt ſyndſamlegt Athæfe / og gief
myſkunſamlega pad / ad eg meige finna i
minne Samvitſku / Frid og Fognud. Go
de Fader / gief mier eina ſterka Tru / ſtø-
duga Von / og ſafnlega Aaſt og Elſku
til þijn. Minn DROTTEJNN / vijk
burt fra mier øllum Hiegoma / ſo ad mitt
Augſkot ſie ecke gælauſt / og mitt Hiarta
ſkeike ecke / ad minn Munnur tale eckert
oriettelegt / og mijn Augu ſie ecke Dramb-
ſøm / ad eg ecke fyrmate minn Lijkama / nie
helldur lyte eda laſte minn Naunga.

Gief mier ad eg ſie ecke Bakmalugr /
vijke ecke fra mijnu Kalle og Embætte /
ſtunde ecke vppa Rijkdoom eda Metord
og Hiegoma Dyrd / ſie eingen Hræſnare /

og ei tale hvorium Manne þagurt i Eyrun. Veittu mier ad eg ecke þyrerlyte Fatæka / nie niðurþrycke Auma / sie ecke Agiarn/ ecke oþundsiukur/ Laste ecke adra nie lyte. Minn Skapare/aþmaadu i hia mier Lauslæte/Galeyse/Saurugar Girnder / Ohreinar Hugrenningar/ Storsinne/Hardwd/Ospekt/Idiuleyse/ Lete/Omenstu/ Skilningsleyse/ Blindleika Hiartans/ Forhert Sinne/ og alla Oidsem. Hialpa mier so eg sie ecke ohlydenn hui sem gott er/ ecke Oraadþægenn/ þa mier verdur heillt raaded / ecke oþmiog Stolmalugur.

Vm mier þess / ad eg ecke take þra þeim Purþtuga/skade ecke þa veyku/Bakmæle ecke þeim Saklausu / og þorsmae ecke þa sem mier eru vndergieþner.

Lat mig ecke vera vid mitt Heimkynne storlyndan / Rijkelatan/ vid þann Framanda ecke Myskunarlausan / vid Naungan ecke harddrægan. Minn Gud/ mijn Myskunsemd/ eg bid þig i Naþne þijns Elskulega Sonar/ veit þu mier/ ad eg giete þramed Kiærleikans Verk/ og

sie Myskunsamur/ og haꝑe lyst til allrar Gudrækne. Hialpa mier / so eg giefe samhatmad þeim sem lijda Skada og Ortett/ og sie Rađhollur þegar nockur þarꝑ þss vid / og leitar Rada til myn.

Giefþu mier ad eg yꝑergieꝑe ecke þan Auma/heldur Hialp veite þeim þurꝑtuga/hugge þann Sorgꝑulla/hialpe þeim Bridtryckta/endurnære þann Fatæka/ ꝑyrergieꝑe þm̃ Skyllduga.

Hialpa mier so ad eg ꝑyrergieꝑe þm̃ sem vid mig haꝑa misgiørt/ ad eg giore þeim gott ꝑyrer illt/ Fyrerlyte ónguann/ veite Virding huorium Manne/epterꝑylge þeim Godu/enn þordest þa hinu Vondu/elske sanna Dygd og alla goda Mañkostu/þordest Lóstu og Lyte/ sie Dolenmoodur i Mótgangenum/enn Hooꝑsamur og Ofteor þa mier vel geingur.

Veit þu mier ad eg geyme miñ Muñ/ og vakte Varer mynar/og ad eg þorsinne allt þad Jardlegt er/ en æstunde þad sem er Himneskt. Hialpa/hialpa mier Numneske Fader/ꝑyrer þinn Heilaga Anda/i Nafne Sonar þijns JESV Christi/ad eg betre minn Lyꝑnad.

Bæn

## XIIII.

# Bæn hins Heilaga Anselmi/ med huørre ad Christelegt Hiarta klagar sijna medbædda Synd og Neyd/ og huggar sig sætlega i Herranum Christo.

**Psalm. 51.** Sia þu af Syndsamlegu Sædi er eg getinn og i Synd gat mig mijn Moder. Sia þu elskar Sannleikann sem hulinn liggur / þu lætur mig vita þann heimuglega Wijsdom.

**1. Cor. 1.** Christur er oss af Gude giordur til Wijsdooms og Riettlætis/ til Helgunar og til Endurlausnar.

MIn Saal/ þui mysstar þu þa Blood þyrstu Gydinga/ z þui veldest þu þeim Myskunarlausu Stryds Mønnum / sem so sarlega / og hryggelega fooru med þinn DROTTENN JESVM? Lat af þessu/ og snu þier helldur til þyns Endurlausnara / og hugleid i huilykre Eymd þu varst stodd / og huilykan Velgiørning hann hefur veitt þier / Hugleid þu huør hann er / sem slykt hefur lided fyrer þig / og huad þu att hønum hier fyrer ad giallda. Hugsa þu um þyna Eymd/og þa

mijklu

mykilu Neyd/ i hvørre þu varst stødd/ Hugleid þu hans Dyrd og Giæsku/ sem hañ hefur synt þier/ og sia til/ ad þu meiger Lofa og Dyrka hañ þar fyrer. Þuiad þu lifd er i Myrkrinum / og varst sek / og skylldug eilyfra Helvytis Pysla. Þynar Synder voru svo þungar sem Bly ad kynnum Hælse/ og drogu þig nidur. GVds hrædeleg Reide þyngde þier ad ofan. Diøflarner þyner osynelegir Ovinir Plagudu þig hrædelega. Þu varst med øllu Hialparlaus/ og visser ecke ad þu varst gietenn og fædd i Syndenne. Oh myn Sæl/ hugleid þu i hvilykre Eymd og Neyd þu varst stødd/ og hugr þyn Æfelok hefde Ordeð. Huxa þu þar um med Otta og Skielfingu / og klaga þad med Hrygd og Hugar Harme.

O HErra JEsu / hvørsu elskulega hefur þu openberad þig/ svo sem ein skiær og fogur Huggunar Sool? Hvørsu vel hefur þu Hialpad mier Obedeñ i allann maata. Myna Neyd og Hørmung hefur þu mier openbera giordt/ mynar blyfþungar Synder hefur þu i burt teked þa hrædelegu Guds grimdar Reide hefur þu af mier teked. Fra mynū daudlegū Ovin Dioflenum / hefur þu mig endur leyst/ og hefur vid hann barest fyrer mig.

Þu

þu hefur læted mig fa Nafn epter þÿ-
nu Nafne/ og kallad mig til þyns Hial
prædis.

Ad vijsu/ þa eg sa fallenn/ hefur þu reist mig upp fyrer þÿnu Auglite/ og sagt til mijn/ vertu Hughraustur minn Sonur (mijn Dotter) eg hefe þig endurleyst/ og mijna elskulega Saal hef eg i Daudann gefid fyrer þig / halltu þier vid mig/ þa skalltu fa Fyrergiefning allra þinna Synda / og ecke fyrer farast/ helldur vil eg leida þig i mitt Rijke/og giora þig ad Erfingia GVds/og Samarfa med mier eilijflega. Hialpa þu mier DROTTENN JESV/ so ad eg kunne riettelega ad hugleida mijna Synd/og af Hiarta græta mijnar Synder / gief þu ad eg fyrer sanna Tru/ fæe ad niota þinna storu Velgiorninga/ og ad eg mætte fyrer þa lofa og prijsa þitt Heilaga Nafn eilijflega/ AMEN.

## XV.

# Ein fagurleg Truar idkan/ i

hvørre Madur harmar z klagar/ Hryggelegt Fall vorra fyrstu Foreldra/ z lætur sig langa epter GVde z hans eilijfre Hialp.

Psalm. 42. v. 43. Þui erttu hrygg Sæl mijn / og þui er þier so Dvært? Vona þu vppa GVD / þui ad eñ nu mun eg þacka hønum / ad hañ er miñ Hialpare og minn GVD.

DROTTENN / þu ert minn Gud / þu Heilaga Þrenning / þu ert minn Gud. Drottenn minn Gud / hu ørsu þeig.nn og giarnann villda eg sia þig? þu ert ad sønu sa sim mig heþur skapad og Endurleyst og veitt mier allt gott / og eg hef þe ecke enn nu sied þitt Andlit. Miñ Gud / þu hafþder ad sønnu skapad mig til þess / ad eg skyllde sia þig eilijflega / enn þad er ecke enn nu framkomed vid mig.

Oh / huad stoort og hryggelegt er þad Fall / þyrer huøret / vier aumer Mannesktur mist høfum þad / til huørs vier vorum skapader. Oh þa saaru Neyd og Eymd / sem geingur yþer allar Eymder. Þu maþur / hurs þu vm / huad þu heþur misst / og sia j huilijka Eymd þu ert komenn. Oh huad stoor og mykel er su Dyrd / huørig þu mist heþur / enn huad þung er su Eymd j huøriz þu ratad heþur. Þu mister eylyfa Saalur hialp / til huørrar þu varst skapadur / enn þu hrepter Neyd og Eymd hryggelega / til huørrar þu varst ecke skapadur.

Aull þijn Glede er j burt / og med Eymd og

og hrygd ertu hladenn/ DRottenn Gud þinn sette þig j Paradys/ so þu skyllder eta Einglanna Braud/ epter huøriu þyna Saal nu laangar/ enn nu flyiur þu ad eta Braud Hrygdarennar/ aþ huørre þu j Paradys vil sser ecke þar.

Oh DRottenn/ huørsu leinge villtu gleyma mier mz øllu? Huad leinge byrger þu þitt Andlit ꝼ mier? Nær villtu bænheyra mig/ og lyta Blydlega til myn? Nær villtu vpplysa myn Augu og laata mig sia þitt Andlit? Lytu til myn DRottenn/ og bænheyr mig. Snw þu þier til myn aptur/ og veit mier Huggun/ þuiad mig þorleinger epter þier. Kalla þu og locka þu mig til þyn/ og laat mig vera hlyddenn so ad eg kome.

Minn DRottenn og minn Gud/ hvilyka Hrygd ber eg j Hiarta mynu/ ad þad er suo aumt. Minn Lausnare/ Endurlyþga þu mig alla tyma/ med sætleik þinnar Huggunar. Sia þu/ mig laangar epter þier minn DRottenn/ laat mig ecke Hungradann þra þier þara. Eg er mæddur og miøg Vanmegna/ minn Gud/ laat mig ecke þara þra þier Huggunarlausann/ eg er Fatækur z kiem til hins Ryka/ eg aumur og Vesall kiem til þinnar Myskunar. O minn Endurlausnare/ laat mig ecke suipsinnes þra þier þara/ og tak ecke þyna Hønd þra mier.

Eg dryp nidur og skammast myn/ minn Gud reis þu mig vpp/ z laat mig sia þyna Dyrd. Mynar Synder ganga vpp yþer mitt Høþ

hd/ og

ud/og sem ønnur Obærleg byrde eru þær mier oþþungar vordnar. Drag þu mig vpp vr Syndasaurnum/ so ad eg søckve ecke.

DROTTenn kienn þu mier ad leita þijn/ so ad eg finne þig. Þuiad huornen kann eg ad leita þijn/nema þu kieñer mier þad? Og huørnenn maa eg þinna þig/eþ þu syner mier þig ecke? Minn Gud/ gieþ þu mier/ad eg jaþnlega leite þijn med allre Aluøru/og Andvarpan/& læte mitt Hiarta langa epter þier/ so eg haþe alla mijna Lyst og Glede j þier/ AMEN.

# II. Capitule

## Heþur Iñe ad hallda nockrar Hiartnæmar & ågiætar Bæner til Heilagrar Þreñingar.

## I

## Bæn til Heilagrar Þreñingar/ad hun villde frelsa oss þra øllu illu/bæde stundlegu & Eilijþu.

Matth.

Matth. 7. Bidied/ þa munu þier faa/ Leited/ þa munu þier finna/ klapped aa/ þa mun fyrer ydur vpplæted verda/ Þt huør sem bidur/ hann þær Þ/ og huør sem leitar/ hann mun finna/ og huør sem ber/ fyrer honum mun vpplæ-ted verda.

Auguſtinus



Allra Hæſtur Almættugur sann-ur Gud/ Fader Sonur og Heilagur Andi þrenur j Pe-rſoonum/ eñ einn j Verune/ og eins Eilijfur/ þu sem alleina ert O-daudlegur/og byr j þui Liooſe/ þangad ſiñ eingenn komaſt kañ/ þu sem Jardarkryn-gluna hefer Grundvallad/ fyrer þijna Mat/og Heimenu ſtijrer og ſtioornar mz þi-nne ſpeke/ þu Riettlaate og Myſkunar-fulle/ þu Dyrdlege og Dadſamlege/ þu Goode og Giæſkufulle Gud og DROtt-enn. Þu ert einn Gud j þremur Perſoonum/ eitt Almætte/ eitt Walld/ ein Speke/ ein og hin ſama Vitſka/ og Giæſka/ þu ert ein Oadſkilianleg Þr-enning.

enning. Minn Gud/ þig ækalla eg/ læt upp þ mier þijnar Riettlætis Dyr/ suo eg gange þar jnn/ og þioone þijnu Nafne. Þu Himneske Fader/ sia þu/ eg stend fyrer þijnum Dyrum/ og klappa æ þær so sem eitt Aumur þurfamadur. Þu hefur sagdt/ Beried/ þa mun fyrer ydur upplæted verda/ suo læt upp fyrer mier min̄ Gud og DROttenn.

Ja ad vijsu/ eg stend fyrer þijnum Dyrum/ þu Fader allrar Nadar og Myskunar/ eg klappa þar æ med oseigianlegre Andvarpan mijns Hiarta/ og med Raudle minna Tæra/ sem ren̄a af mijn̄ Augum. DROTTenn/ þier er kunnug mijn Synd/ og mijn Andvarpan er ecke hulen fyrer þier. Minn Gud/ byrg ecke fyrer mier Andlit þitt/ og tak ecke fra þier Þræl þinn j þinne Reide.

Neyr þu Fader allrar Nadar/ sorgarlegt Kall hins Auma/ riett ut þijna hiälpar Hend/ og drag mig upp ut þui mykla Vatns diupe. Frelsa mig ut Stref Syndarennar/ og þuo mig af saurugleika minna Misgiorda. Minn Gud/ Læt

 mig

mig ecke til Gruñs ganga/ þyrer þijnum Mysskunar Augum/ og ei þordiarþast þy rer þijnu Auglite sem ad er Giafkurijkt.

Hialpa mier miñ DROTTeiñ/ suo ad eg komest til þijn minn Gud/ og þæ ad sia Rijkdoom þijns Dyrdarþulla Rijk is/ og ad skoda þitt Andlit Oaþlaatanle ga/ og ad loþa þitt Heilaga Naþn.

Minn DROTTeñ og Gud minn/ þu kant ad giora Undur og Stoormerke/ og þu gledur mitt Hiarta/ so opt sem eg hit ra til þijn. Þu heþur hialpad mier þra Barndoome/ yþergieþ mig nu ecke j mi nne Veyke (Elle) Gled þu Bein mijn/ so ad eg verde vngur j annad siñ sem Ørn/ þu sem lijþer og rijker eirn sannur Gud/ þra Eilijþd til Eilijþdar/ Amen.

## II

## Ein Undervijsan/ huørnenn

Madur skal daglega hugleida/ huor og hvilijkur Gud haſi er/ sem er/ ad hann sie Almattugur/ Riettlatur/ Sann arlegur/ Heilagur/ suo ad Madur lære ad hrædast hans Naþn/ og elska hañ aþ Hiarta.

Psalm

Psalm. 145. DRottenn er Riettvijs j øllum sijnum Vegum/ og Heilagur j øllum sijnum Verkum.

Augustinus.

DROTTenn minn Gud/ sem ert einn j þinne Veru/ enn þreinnur j Persoonum. Þo ad men̄ skrifudu suo margar Bækur um̄ þig/ ad Heimurinn yrde fullur af þeim/ þa er þo Omøgulegt ad utskyra þijna Dyrd/ og þitt Majestatis Vellde/ og leyndann Doom þinnar Kynningar. Þuiad þu ert Omrædeilegur/ og eingen er sa sem noglega kunne fra þier ad skyra/ edur þig ad ransaka.

Min̄ GVD/ þu ert Uppsprettubrunnur þess Guddoomlega Lioss/ og Sool eilijfrar Birtu. Þu ert mijkell/ og þijn Stærd verdur ecke mællt nie meten/ þar fyrer ertu oseigianlega mijkell. Þu ert Omælanlega Goodur/ þar fyrer ertu sannarlegur/ og sa allra beste og Giæskurijkaste/ og eingenn er Goodur nema þu alleina/ hvad þu villt þad kiemur fram̄/ og hvad þu þier asetur/ þad kanntu ad gjøra.

O þu Heilaga Þrenning/ þu hefur skapad alla Hlute af ængvu Efne/ og tilreidt þa epter þijnum Vilia. Þu hefur þier j Hende og eignast allar Skiepnur/ enn þarft þo ængrar vid. Þu styrer og stiornar þe-

fin aan allrar Mædu / og þreytest ecke / og þar er eingenn Slutur sem þyna Ryktastid en hindra kann / i myklu eda litlu. Þu ert i øllum Stødum og Attum / enn ert þo ob bundlande / og huørge inne lucktur.

O þu allra Sæleitasta Eining / ecke er Synden komen af þier / og ei kantu ad synd/ oga. Allt er þier mögulegt ad giøra / og ei ydrast þu neins þess sem þu hefur giørt. Þyn Giæska hefur skapad oss / þitt Riettlæte agar og typtar oss / þyn Myskunseme þrelsar oss. DROTTenn GUD / þu sem ert einn i Þrenningu / og þrennur i Einingu / þitt Almætte styrer og stiornar / og vid Mægt helldur øllu þui sem þu hefur skapad. Þu uppfyller alla Slute / enn ert þo ecke af neinum inne lucktur / þu ert i øllum Slutum / þo so / ad þeir eru aller i þier. Eingenn fær fordast þitt Valld / þt þegar þu ert nøckrum Reidur / huar vill sa blyfa fyrer þinne Reide ?

## III.

# Ein Huggunarsamleg og Hiartnæm Bæn til Heilagrar Þrenningar / huøria hinn Heilage Cyprianus sette þeim fyrer og skrifade / sem fyrer Christi Nafns saker verdu til Pijsla leidder og Daudans.

Esa. 26. DROTTENN þeg ar Normung er fyrer Hende / þa leita þeir

þeir til þijn/ þegar þu typtar þa / þa
bidia þeir af Hiarta.

HEilagur/Heilagur/Heilagur Gud/
þu allra Helgaste Fader vorra Fo
rfedra/þu GUD Abrahams/Gud
Isaacs/ og GUD Jacobs/ Gud þeirra
Heilogu Propheta og Postula/ GUD
allra Rettrunadra og Heilagra/ þu Gud
og Fader vors Herra JESU Christi
þijns elskulega Sonar.

Og þu HErra JESU Christe/fæddur
af Hiarta og Munne þins allra Hæsta
Faders adur enn Jordenn var grundvollud/ &
þar epter a sijdan af þeirre Heilogu Mey
Maria / med dasamlegre Verkan þins
Heilaga Anda borenn i þennan Heim.

Þig Eilijfan Almattugan GUD bidium vier/þig akollum vier af Hiarta/
ad þu veiter oss Nad ad akalla og bidia
þig af brennanda Aastarþele/ og Hiartans allre Aluoru/ vppa þad ad vor Hiortu ( sem adur eru þyrer þa Heilogu
Skijrn hreinsud og endurlijfgud) mætttu
Vardueitt verda fra ollum Syndum / og

þry verda þra ollum holldlegū Syrndum.

Vier ækollum þig med Kietkre Tru med hreinu Hiarta / med allre Aluöru og brennande Aast og Elsku til þijn/ vñ þu oss og veit þad / vegna þinnar Myskunnar / ad vier i Tolu þinna Utualdra/ mættum eilijflega blijfa.

Fyrer þier DROTTENN beygium vier vor Hiartans Knie / og lutum þijnu Heilaga Auglite / þuiad þig lofa og dyrka aller Einglar og Hoþudeinglar / þig pegsamar allur þiolde þiña Pijslarvotta / Þig prijsa aller Heilager Spamenn og Postular. Þig lofa aller Fuglar vnder Himnenum / þig medkienna allar Tungur a Himnum og a Jordunne / þig medkienna oll Votn / bæde þau sem eru fyrer ofan Festingar himenenn og þar vnder / ja ad vijsu / þær minstu Skiepnur / sem huorke hafa Lijf nie Skyn / þær bera Vitnē vm þig / og fyrer utan þig er eingenn GUD. Almattugur DROTTENN GUD og Fader / þu sem byr i þui Liose / þangad sem eingenn kann ad komast nema þinn Sonur alleina. Drottenn

GUD

GUD / huorium aller Einglar og Noþ-
udeinglar eru hlydnger/vier bidium þig
audmiuklega / gieþ þu off sanna stoduga
Nughreyste / sannlegt Meinleyse / hreina
og oflecfada Samuisku/þalslausan Ri-
cerleika / heilagan Lißnad og Christelegt
Framþerde / so ad vier þyrer rietta og san
na Tru / mættum sigra og yþervina alla
Slægd og Nreckuijse þessarar aumu og
illu Verallðar.

Nughraust gior þu Niorku vor i giegn
ollu Skielþingu Dioþulsins/ og i giegn
ollu þui sem voru Nollde og Blode vel
lijkar / so vier mættum mz þoleinmæde
lijda Kuol og Dauda / og allskins Pijst
og Pijnu medtaka / so sem eitt visselegt
Teikn og Merke vorrar Sæluhialpar.

Vardueit off þyrer ollum Saurendum
þessa Neims / þyrer allre Astrijdu oþr
einnra Anda. Og lijka sem þu þijna A-
mbatt Saru þrelsader fra þeim illa An-
da Asmodeo/og liest hann langt burt i
Gydemorku aþ þijnum Einngle Raphael
bundenn verda / so vitdsi ad vardueita
off þyrer Slægd og Illsku Vondra An-

va/ og lata þad allt ad ongus verda.
Vertu alla tijma mier nalægur minn GUD/ so sem þu varst þeim Unga Tobia/ og þeim þremur Ungu Monnum i Logande Babylons Ofne/ og þeim goda Daniel i Leonagrøfenne/ i somu mata virdstu DROTTEN ad hialpa oss þijnum Þienorum. Minn GUD / þu hefur lifande giørt þa Daudu / og þu gafst Blindu Syn/ Daufum Heyrn/ og Dumbum Mal / Halta hefur þu lated ganga/ Lijkþra hefur þu hreinsad/ so hial pa nu oss þijnum Þionum / sem af allre Tru porlatum oss uppa þig / og af ollu Hiarta truum þui/ ad þu HErra JEsu Christe siert vorra vegna Madur ordenn/ og hafer fyrer oss lided Dauda og Pijnu/ og ad a epsta Deige muner þu koma aptur/ til ad dæma Lifendur og Dauda.
DROTTEN GUD/ stattu hia oss/ hialpa oss / suo sem þu hialpader þijnum godum Postulum i þeirra Fangelse og Bondum/ hinum Heilaga Pale i sijnu Ofsoknum. Og S. Petre a Sionum. Þu situr til þijns Fodurs hægre Handar/
i Tig-

i Tignar Sæte þyns Velldis / hialpa þu oss og frelsa oss fra Fyrerdæmingu ei lijfs Dauda. Neyr Almætfugur Eilijfur Gud/ þu þrenur z eirn/Gud Fader/Gud Sonur/ GUD Heilagur Ande/þier sie gefit i þinne Christne og Samfundu alla tijma Lof og Dyrd/ Kraptur og Styrklei ke/ Heidur og Prijs/ og oendanleg Vegsemd/ nu og ad eilijfu/ AMEN.

# IIII.

## Ein Hiartanleg og kroptug Bæn hins Heilaga CYPRIANI, til Heilagrar Þrenningar/ huoria hann hefur sialfur Bedid a þeim deige/ þa hann var til sinar Pynu z Lijflats utleiddur.

Psam. 112. Þegar ein Plaga kiemur / þa er sa hinn Riettlate Ohræddur / hans Hiarta vonar ofalaust uppa DROTTenn.

Psalm. 116. Daude Heilagra er Dyrmætur fyrer DROTTne.

DROTTenn þu Heilagur Fader/ Heilagur Gud/ Heilagur DROTTenn/ minn Gud/ Nu er er so mykell sem þu? Þier

seige eg loß og Packargiord. O þu Gud Abrahams / Gud Isaacks / Gud Jacobs Gud vorra Forfedra / þu Gud Postulaña / Prophetaña / ꝛ allra heilagra Pijslarvotta þu sem ert og blijþur ad Eilijþu / þu Gud sim koma mūt ad Dæma lißendr ꝛ Dauda.
O þu sañe Gud / sem sitr yþer Cherubim og Seraphim / og sier um oll Vnder diwpenn / þu veist alla hlute / ædur enn þeir verda / og huad þu villt / þad skiedur hindrunarlaust. DROTTenn allra DROttna / frelsa mig þra þessare vonđre Verolldu / Bænheyrdu mig minn Gud / so sim þu bænheyrder Jsraels Sõu.
O vei / vei mijnum Syndum / Huort skal eg þlyia? Huar er þad þylsne þar eg kunne ad þela mig / þyrer Auglite þinnar Dyrdar / nær ed þu tekur þig til ad slaa Jordena? Huar er þad Fialled til huors eg kann ad seigia / Fall þu yþer mig / eda sit Nædeñ / til huerrar eg ma seigia / Hyl þu mig þyrer Ogn ꝛ Skielþingu Drottens / þegar þu tekur þig til ad slaa Jordena. Þig bid eg og grætbæne þig DRottenn hialpa þu mier / Dæm mig ecke epter mij-
num

num Maklegleikum/ þuiað eg heſe Oyl-
ðdenn vered ollum þijnum Boðordum.

DROttenn Gud/ heyr þu mijna Bæn
þu Bænheyrder Jonam Spamann þa
hann kallade til þijn vr Kuideҧualſins/
ſo heyr nu lijka mijna Bæn/ og leid mig
fra Daudanum til Lijfſins. Minſtu
DROttenn a þa i Ninive Borg/ huorn-
en ad þeir giordu Yðran/ klæddu ſig Sec-
kium/ og ſatu j Oſku/ ſo Myſkuna mi-
er og eirnenn minn Gud/ ſem heſur þeck-
nan a Manneſkiunnar Yðran og Yfer-
boot/ Þuiad eg medkienne mijna Synd/
og jafa þyrer þijnu Auglite/ allt mitt Ran-
glæte/ ſo ſeiger ſa Heilage David. DR
Ottenn vegna þijns Nafns/ vertu Nad-
ugur Misgiordum mijnum og afmæ allar
mijnar Synder og mitt Ranglæte.

Bænheyr þu mig Gud minn/ lijka ſo þu
Bænheyrder þa Vngu menn j Babylon/
ſem kolludu til þijn vr þeim loganda El
lds Ofne/ og þu ſender þeim þinn Ein
gel/ og Lijfgader þa og endurnærder/ eins
og med ſeſkre Doggu/ ſo ad Kongenum
Nabogodonoſor bloſkrade/ þuiad þu ert

Kongur

Kongur allra Konga / og DROtten allra DROTTna / huor ed alleina ert Odaud legur / og byr j þui Liosenu þangad sem einginn kann ad komast / og einginn mann eskia Daudleg hefur sied / nie fær ad sia.

Heyrdu mijna Bæn minn DROTTenn / so sem þu heyrder bæn Danielis j Leona-Grofenne / og sender þinn Spamann Habacuch ad færa honum Fædslu.

Bænheyr þu mig Gud minn / so sem þu bænheyrder Tobiam og Saram þa þau bædust fyrer j þeirra Husum / og Raphael Eingell bar Bæner þeirra fyrer Gud / og þau vrdu Bænheyrd a eirnre Stundu. So virdstu nu og eirnenn ad lata koma mijna Bæn fyrer þitt Tign nar Sæte / og send þinn Heilaga Anda og Eingel til mijn / ad hann Afplane og j burt take allar mijnar Misgiorder / lijka sem þu burt tookst fra Saru þann jlla og oreina Anda / og opplijs mitt Hiarta lijka eins sem þu vpplijster Augu hins blinda Tobiæ.

Heyrdu mijna Bæn / minn GUD / lijka sem þu Bænheyrder Susonnu a medal allra

ollduganna/ og frelsa mig lyka eirnenn fra þessare vondre Verolldu/ þuiad ein hrein Samviska er þier þægeleg.

Banhæyrdu mig / lyka sem þu Ærne heyrder Ezechiam Kong Juda/ og leyster hann fra Siukdome synum/ leys mig ꝛ eirnen fra Veykleika myns Holds. Og lyka sem þu iokst Alldur hans vm fimtan Aar/ so auk þu myna Tru meir og meir.

Eg bid þig Fader Dyrdarennar / þu sem Myskunader þig yfer oss a seinu-stu Dogum Heimsins/ og vtsender og gaft oss þinn elskulega Son JEsum Christum / oss til eins Frelsara og Lausnara/ hann sem fæddur var af Heilagre Jomfru Maria / fyrer Krapt heilags Anda/ og hefur oss fyrer hann endurleyst/ ꝛ fra eilyfum Dauda frelsad.

Þig bid eg eirnen HERRA JESU Christe/ þu Sonur Lifanda Guds/ sem myklar Jarteikner og furduleg Dasemds-arverk hefur giort/vegna þyns Folks Is-rael. Þu snerer Vatne i Vyn i Cana Galilea/ þu gafst Blindum Syn/Dau-fum Heyrn/ Dumbum Mal/Diofulcoda

hefur

hefur þu frelst fra Andskotanum/ Lykthra hefur þu hreinsad/ Nallta. hefur þu gangande giört/ Dauda hefur þu uppvaked/ og enn fleire Kraptaverk giört.

Þu Sonur Lifanda GUds/ eg bid og grætbæne þig/ vertu Lyknsamur Misgiörningum mijnum/ og fyrergief mier all ar mijnar Synder. Minn Lausnare/ sem ert á Himnum/ og ert med Fodurnum/ & Faderen med þier ad eilijfu. Þu situr yfer Cherubim og Seraphim/ i þiñe Dyrd. Þier þiona allur oteliantegur Skare Einglanna og Hofudeinglanna/ Lofande og prijsande þijna Majestatis Dyrd/ kallande med hærre Roddu/ og seigia / Heilagur heilagur/ H. er Drottenn Gud Allsheriar.

Þu hefur sialfur med þijnum eigeñ Munne oss Fyrerheited / seigiande Bidied/ þa munu þier fá/ Klapped á/ þa mun fyrer ydur upp lated verda. Og i odrum stad/ allt hvad þier bidied Fodurenn i mijnu Nafne / þar um vil eg bidia/ eg þier skulud þad fá. Miñ Lausnare/ eg bid og Grætbæne þig/ lat mig þad fá. Eg leita/ lat þu mig fiña/ Eg
klap-

klappa a/ lat upplůkeð verða fyrer mier. Ja DROTTenn/ eg bið j þynu Nafne/ so þu fær þad af Fødurnum/ og veiter mier þad. Minn Gud/ sia þu/ eg er reiðubuenn ad lata mitt Lijf fyrer þyns Nafns saker/ og verda eitt Offur/ Alla Angist Kuøl og Pijnu vil eg þolen moodlega lyda/ enn þu minn DRottenn/ Vertu minn Hialpare og miñ Styrktur/ Frelsa mig fra mijnum Motstandara/ og lat þyna Heilaga Eingla geyma mijn/ þui þu hefur sagt/ allt/ huar um þier biðied i ydar Bæn / þad skal veitast ydur.

Aller Menn eru Suiksamer / og fall valltter/ og ecke er ad reida sig uppa neckurn þeirra/ enn þu DROTTENN ert sannordur / Obrygdull/ miñ GUD/ þu hefur mier þui lofad/ þu giefur og eitnenn veitt mier þad/ þar fyrer DRottenn/ gief þu ad Hiarta mitt verde fullt af himneskre Huggun / og hialpa mier so/ eg meige sia þitt blijda Blessada Andlit i Himerijke. Styrk þu mig med Heilogū Anda þijnum/ og lat allt um mig verda epter þijnum Heilaga Vilia/ þuiad alla

mijna

mijna Lijfsdaga hefi eg mig hier a Nen-
dur haled.

DROTTenn JEsu/þu varst Pijnd-
ur vnder Pontverskum Pilato/og giordet
eina dyrdlega Jatning fyrer honum/ va
rst Krossfestur/hoorst ofann til Helvijta/e
hefur brood Daudans i sundurbroted/þat
fyrer er Daudenn yfervunnen/og Dioful-
enn vor Ovinur sigradur og fleigenn.

Þu ert og af Dauda vpp aptur risenn
og hefur byrkst þijnum Postulum/og sit-
tr nu til hægre Handar þijns Himneska
Fodurs/og þu munt apfur koma ad Dæ-
ma Lifendur og Dauda.

Mijn Herra og DROTTenn/ leys
mig vr Houdum þeirra/ sem leita epter
minne Sælu/ Frelsa mig vegna þijns
Nafns fra Vallde Dioffulsins/og hialpa
mier til ad yfervinna mijna Ovine.

Þu ert sa sem oss tekur ad sier / og ert
vor ærnadar Madur hia Fodurnum/ og
heyrer vorar Bæner og Andvarpaner/Da
ga og Nætur/ bidur þar fyrer oss/og ber
Bæner vorar fram fyrer. þinn Fodur.

O DROTTenn Gud Heilagur Fader

lijttu

lijtetu Myſkunſamlega til miñar Bænar/ ſo ſem þu leiſt til Abels Foornar. Freelſa mig fra eilijfum Elldi/eilijfu Straffe/eilijfre Pijnu/ ſem þu hefur tilreidt þeim Ogudlegu. Þetta gief þu mier og vel/ minn Gud/ j Nafne Jeſu Chriſti þijns Elſkulega Sonar vors Lauſnara/ fyrer huern þier ſie ſungeñ Ord/ Lof og Prijs/ Heidur og Þackargiord/ uñ Allder og ad Eilijfu/ A M E N.

V

# Ein miøg Good Bæn til Heilagrar Þrenningar/ ad hun villie koma til vor/ z vera hia oſſ.

Johann. 14. Huer mig elſkar/ hañ vardueiter miñ Ord/ Og miñ Fader mun elſka hann/ og vier munum koma til hñs z giora Viſtarveru hia honũ.

Auguſtinus.

Þu Heilaga Þrenning/ Almattuge eilijfur Gud/ eg bid þig/ kom þu til mijn Aums Syndugs mañs/ Minn Gud/bu þu j Hiarta mijnu/ þu ſem mier þa Nad veitt hefur/ad mig nu

længar epter þier aþ Hiarta. Kem og tak mitt Hiarta ad þier med ollu/ Tilbw þu þad/ so ad þad verde iaþnann þinn Bwstadur og þitt Herberge.

Minn DROTTEnn/ þu sem mig heþur skapad/ og epter Falled mig endurfæddt ad nyu/ gieþ ad eg haþe þig alla Tijma suo sem eitt Innsigle j mijnu Hiarta.

Minn Frelsare/ eg ákalla þig/ yþergieþ mig ecke. Þu heþur mig kallad og epter mier leitad/ ádur enn eg visse nockud aþ þier/ so ad eg skyllde verda þinn/ og þinna þig med Fognude/ og elska þig aþ ollu Hiarta. Nu heþ eg leitad þijn minn Gud og þu gaþst Rád til/ ad eg þann þig/ ꝛ eg elska þig aþ ollu mijnu Hiarta. Aukt þu DROTTEnn med mier þessa Aast eg Elsku til þijn/ og hialpa mier/ suo ad eg elske þig enn þramar meir.

Gieþ mier Drottenn þad eg bid / enn eg gyrnest/ og bid vm sialþann þig. Ja DROTTEnn/ þig vil eg haþa/ þig sia þann gyrnest eg/ ad þu gieþer þig mier. Þuiad þo þu gieþer mier daglega allt þ sem þu heþur skapad/ Huad stodar þad

mig/

Mig/eþ ad eg heþde þig ecke? Þar þyrer
minn Gud/gieþ þu mier sialþañ þig/ og
verku j mijnu Hiarta.

Minn Gud/eg elska þig/ þad veitstu/
Eñ aþ þui ad mijn Elska er veik og O-
þullkomeñ / þa gieþ ad hun daglega va-
re og aukest/so ad mitt Hiarta verde med
øllu jñteked aþ Aast og Elsku þiñe/ og
verde þar aþ Breñande/og þiñe nyañ Fø
gnud/og nya Huggun/ so opt sem eg mi-
ñnest a þig. Sia þu miñ Gud/þeg
ar eg nu bid þig med soddañ moote/og hu
ga vm þyna O-seigianlega Elsku/ þa er
mitt Holld og Blood med kyrd/ og allar
hiegooma Nuxaner hverþa þa j burtu/By
rde miñar Eymdar verdur þa lieftare/og
Kreynker mig ecke so miøg sem ꝏdur fyrre/
Ja allt þad sem med mier er/gieþur sig
til Frids.

Oh Nuørsu ad mitt Hiarta þad breñ-
ur? Nuørsu glød er mijn Saal? Hvilijkt
eitt Lioos kiemur vpp j mijnum Skilni-
nge? Þegar eg hyxa vm þig miñ Gud/
Allañ mig j Saal og Lijþe/langar epter
ad sia þijna O-seigianlega Dyrd. Eg vill

de Sæl min hefde Vænge sem Aurn/ þa skyllde hun fliuga og þreytast ecke/ þ nu skyllde fliuga þangad til hun kiæmest til Hwssins þinnar Dyrdar/og til þess Sta dar þar þijn Dyrd inne Bygger/ so ad hū yrde endurlijfgud vid þitt Bord / a samt med þeim Himnesku Borgurum sem þar eru/ og þeinge ad drecka af þui Fesska Lijf sins Vatne fyrer þijnu Auglite.

DROTTENN minn GVD / þu Heilaga Þrenning/vertu mijn Huggun og Glede/ so leinge sem eg lifi/ þuiad þu ert mijn Von mitt Hialpræde/ mijn Endurlausn / vertu alltijd mijn Hiartans Glede/hialpa þar til ad eg elske þig alla mijna Daga/og verde alldrei þreittur þig ad elska/ þig ad lofa og dyrka ad Eilijfu / AMEN.

# III. Capitule

## Hefur jnne ad hallda Bæner til GVDs Fodurs.

I. Agiæt

# I.

## Agiætleg Bæn / j huørre ad eitt hrædt z skialfpande Manns Hiarta setur fram fyrer Fødurenn / Pijnu z Dauda og Arnan hans Elskulega Sonar / og huggar sig þar vid.

**Rom. 8. JESUS Christus er til GUDs hægre Handar / og bidur fyrer oss.**

Augustinus,

Vad kan ad vera Hugguna arsamlegra enn þad / þegar Madur bidur GUD Fødur vm Nad og Myskun i Nafne hans Elskulega Sonar? Þegar Madur bidur eirn Kong ad lata sig niota Kongsins elskulega Sonar?

Þannen hafa Menn fyrr meir optlega leyst þa Aumu vr Fiøtrum og Fangelse / so hafa Þrælarner lauser orded vr Bøndunū / so hafa Menn þa Fordæmdu / ecke alleinasta lausa feinged / helldur jafnuel komed heim i Nad og Vinskap hia Høfdingium / þa þeir hinu seku hafa vm Lijf beded vegna þeirra Nastar og Elsku sem Herrarner til sinna Afkuolgenna eigen Barna hafa. So hafa Þrælarner opt komed i Vinskap hia þeirra

 har-

hardrædum Herrum / þegar Herranna Eil skulcg Børn hafa beded þeim Nadar.

MEd þessum hætte bid eg eirneñ þig þu Almættugur Fader / fyrer Aast og Elsku þyns Hiartanlegs Sonar / ad þu leyser Saal myna wr Fiøtrum Syndanna / so ad eg meige þacka þynu Heilaga Nafne. Eg bid og Sr atbæne þig Fader / vegna þyns einka Eilyfa Sonar / Leys mig vr Bøndum minna Misgiorda og endurlyfga þu mig aptur til Lyfsins / vegna þinar Myskunar / og Fyrerbonar og Medalgaungu þyns allra Elskulegasta Sonar / huor ed situr þier til Hægre Handar / þuiad myn eigen Verdskulldan hootar mier Dauda.

Minn GUD / huorn þinn eg þann sem mig frelse / vtan þennan þiñ Son / sem er Forlykuneñ fyrer vorar Synder / E situr til þinnar Hægre Handar / og bidur fyrer oss. Miñ GUD og Fader / sia þu / þar er minn Aarnadar Madur hia þier / þar er sa Æzste Kiennemadur / sem ecke þarf vid nockrar Forlykunar fyrer annarlegt Blood / þuiad hann hefur

sialfur

sialfr vtgieþed sitt eiged Blood þyrer oss.

Sia/ þar er þad Heilaga Offur / sú algiørd þægeleg Foorn/ sem vtgieþen er til Sætleiks Jlms / og er þier sú hin allra þægelegasta.

Sia / þar er þad Flecklausa Lambed GVds er þagde þyrer þeim sem þad reytku og ræðu/ huort ed var sleiged og lamed/ hædt og Spottad/og heþur ecke vpp loked sijnum Munne. Sia / þar er sa semønguá Synd giørt heþur / enn heþur þo bored allar vorar Synder/og giørt oss heila þyrer sijnar Vnder.

So Myskuna mier nu minn Himneske Fader/ og tak mig til Nædar vegna bei sku Pijnu og Forþienustu vors DROTTENS og Lausnara JESV Christi þijns Hiartans elskulega Sonar. DROTTENN/ eg true / kom til hialpar minne veyktre Tru/ og styrk hana/Amen.

## II.

# Ein onnur Bæn j huørre

## Madur huggar sig aþ Hiarta vid JEsu Christi Pijnu.

Esa. 53. Vegna vorra Misgiørꝛ da er hann særdur / og vegna vorra Synda er hann sleigenn. Refsingen liggur a honum / so vier hefdum Friden / og fyrer hans Beniar erum vier Heilbrygder orðner.

Augustinus.

A Lijttu Gode Fader / þinn Elskulegasta Son / huor ed soddan Pynu heþur minna vegna lided. Sia þu / sia allra Nadarþullaste Kongur huor sa er sem lijdur soddan Pijsl og Plagu / og vertu lijknsamur þeim / þyrer huorn hann heþur allt þetta lided. Minn DROTTENN / er þad ecke þinn Elskulegur Sonur / huern þu heþur utgieþed Þrælnum til Endurlausnar ? Er þad ecke Brunnur Lijfsins / huor ed leiddur verdur sem Lamb til Slaturbeckſins / og vered heþur hlydugur allt til Daudans / og lided heþur þann allra skiamirdelegasta Krossens Dauda ?

DROTTENN alls Nialprædis / Hugleid þu / ad þesse er þinn Sonur / þunꝛ

ovmrædelega af þier fæddur/og þu hef-
ur læted hann þo verda Hluttakara mijns
Veykleika. Hann er jafn þier i Guddo-
menum/ og hefur æ sig teked mijna auma
Natturu / og er festur æ Krossenn / og
hefur i Manndomlegre Natturu lided
þa beisku Pijnu og Kuøl Krossens.

DROTTENN GUD minn/lijt þij-
num Majestatis Augum / æ þetta þitt
ovmrædelega Myskunar verk. Alijttu
þinn Elskulega Son æ Krossenum hang
anda / huorsu allur hans Lijkame er vt
þanenn/ siæ/ huersu alblodugar eru hns
Saklausu Hendur / og fyrergief mier
Myskunsamlega mijnar Synder/sem eg
hefe drygt med mijnum Hondum. Siæ/
huorsu grimmlega hans Sijda er løgd i
giegnum / og endurlijfga mig med þui
Heilaga Blode sem þar vt af rann. Lijttu
æ hans Fætur/ huorier ad voru flecklau
ser/ og geingu ei æ Veige Syndugra/
helldur hafa þeir alla tijma geinged æ
Gøtu þinna Bodorda/ og siæ/ huorsu gr-
immlega þeir eru i giegnum grafner / og
greid þu Gøtu mijna epter þijnum Fot-

 stor-

ſporum / og vñ mier þſſ myſkunſamlega/ ad eg vtuelie Veigen Sañleikans/ enn hafe alla ranga Vegu / ſnu þu mier fra Folſkum Veige / og hialpa mier Myſkunſamlega.

Eg bid þig þu Kongur Heilagra/fyrer þennañ allra heilagaſta Son þiñ / minn Frelſara / læt mig ganga a Veige þiña Bodorda/ og m3 þui hañ heþur Ifklædſt mijnu Holldе/ þa hialpa mier til / ad eg i Daudanum mætte verda eitt med hõnũ.

Sier þu ecke gode Fader / huorſu ad Noþudid þijns Elſkuliga Sonar hanger nidur/og er komeñ i Daudañ? huorium ad eckert er fyrer þier dyrmætara / ſia þu Giæſkufullur Skapare/Kiærleik þijns elſkulegaſta Sonar/ og Myſkuna þig yfer Veykleik þinnar Aumu Skiepnu.

Sijt þu til / O Fader / huorſu bert er hans Hiarta/ huorſu raud og Blodug er hans Sijda/huorſu veyker eru aller hans vtþander Limer / huorſu ad ſortnar þyrer hans bleſſudum Augum/þa hans Varer þolnudu vpp/ þa hañs Armlegger ſtirnudu/ og hans ſterker Fotlegger hiengu/ og

og Fæfurner voru sundur boraðer/ og als bloduger. Hugleid þu Fader Dyrdarennar/og sia/ hvorsu Lider og Limer þijns Elskulegasta Sonar eru sundur teygder/ togader og særder / og minstu naadarsamlega a þad / hvad vier Aumar Mannes skiur erum. Hugleid þijsl og þijnu Sonar þijns/ sem er GUD og Madur/ og lina Eymdum Manskiepnu þinnar/ huoria þu hefur skapad.

Lijttu a þijnu vors Lausnara/ og fyrergief þeim Synderuar / sem hann hefur frelsad. O Himneske Fader/þesse er sa sem þu hefur skiged vegna Synda þijns Folks/ þo hañ være þiñ Elskulegur Sonur/ huor ed þier þocknadest. Þesse er sa Saklause og Meinlause/ med huoriñ ei voru hecfur Suik/þo var hañ reiknadur a mille Illuirkia.

Myskunsame og millde Fader/ hialpa þu mier/so ad eg alla tijma kuñe ad hugga mig i þijns Elskulega Sonar Þijnu og Dauda/og med stedugre Tru þar upp a treysta/ allt til æfeloka/ AMEN.

Ein

# Ein oñur Agiæt Bæn/ j huorre Syndugur Madur framſetur fyrer Gud Fødur/Pijnu og Dauda hans Sonar/z bidur vm Naad z Myſkun j hans Nafne.

## Rom. 5. Huar Syndeñ yfergnæfˀ/ þar yfergnæfˀ Naadeñ myklu meyr.

Auguſtinus.

MYſkunſamur Fader/ ſialfur hefe eg þig moodgad/og til Reide reitt/eñ ſialfur kañ eg ecke ad koma mier j Satt vid þig aptur Þiñ Elſkulegur Sonur er ordeñ miñ Hialpare/z hefur tekid myna Mañdooms Natturu a ſig/til þeſſ ad hialpa oſſ Aumum/vpp a þad/ad ſo ſem Mañeſkiañ hefur moodgad þig/ſo villder þu lata eirn Mañ med ſynu Offre þig Forþyda/ og þig til Frids ſtilla. Þuiad hañ er til þinnar Hægre Handar/ og ſyner þier þar jafnlega/ ad hañ er minnar Natturu Hluttakare vordeñ.

DROTTeñ myn Gud/ og mitt Trauſt Ef þu villt ſnua þier fra mier/ ſo ſem eg hefe med mynum Syndum þ Forſkullda/ þa lyt þu Myſkunʳ Augum þynum til myn aptur/vegna þyns Elſkulega Sonar. Miñ Fader/ ſiaʃtu Son þiñ/og fyrer hans Skulld/

lld/veit Þræl þynum Naad z Myskun. So opt sem þu ælytur þyns Sonar Saar z Vit der/þa lææt mynar Synder vera huldar þyr er þier. So opt sem þu lytur æ þad rauda Blood þyns Sonar/sem rañ wt af hṅs Syþ du/þa afmaa þu allar mynar Misgiørder.

Og med þui/miñ Gud/Hollded hefur þig styggt og moodgad/ þa lææt hans Holld bly dka og þyda þig aptur/so ad eg/sem af Ho lldenu er sutkeñ/mætte fyrer hans Holld faa aptur Naad og Myskun. Þuiad eg hefe m mynum Syndum marga þungt Forskulldad/ Eñ þo hefur miñ Lausnare med sine Hlyd ne myklu meyra gott Vtvegad og afrekad.

Stoort er mitt Ranglæte/ enn þo er Riettlæte myns Lausnara eñ stærra/ jaa/ so myklum mun stærra/ suo sem Gud hann er stærre/ enn Madurinnn/suo eru og mynar Synder myklu minne/ helldur enn hanns Naad og Giæska. Þuiad huørnenn kañ nock ur Madur ad hafa giørdt suo stoora Sy nd/ad Guds Sonur sem Madur er vordeñ/ hafe ecke þar fyrer Betalad? Huørnen kañ Drambsemeñ ad vera so stoor/ ad hun verde ecke fyrer slyke Lytelæte af maad og afplaun ad? Huørneñ kañ Daudans magt og Valld ad vera so stoort/ad þad verde ecke niduvbr oted fyrer Pynu og Dauda Guds Sonar.

Jaa miñ Gud/skyllde Madur samañreca Synder maña vid Naad og Myskun Lausn arans/ þa munde þad mismuna suo mykid/

suo

suo sem Austred er fra Vestrenu/ ja/ so sem Helvijte er langt fra Himerijke.

Þar fyrer þu Skapare Lioossens/ fyrergief mier allar mijnar Synder/ vegna Pijnu og Dauda þijns Elskulega Sonar Jesu Christi. Lát hans Nad og Myskun koma til Hialpar mijnum Syndum/ hans Angist mijne Illsku/ og hans Audmykt mijnu Dramblæte. O Herra Jesu Christe/ bæt þu mijna Ohlijdne med þinne Hlijdne/ mijna Drambseme med þijnu Lijtelæte/ mijna hiartans Hardwd med þinne Giædsku/ minn Ofrid med þijnum Fride/ mijna Hiartans Hreckvijse med þijnum Sætleika/ mijna Reide med þinneÞolenmæde/ mitt Aastleyse med þijnum Kiærleika/ A M E N.

IIII

## Agiæt Huggun/ huørsu ad Guo Himneskur Fader hefur sendt og giefed sinn Elskulega Son/ Manlegu Kyne til Hialpar & Endurlausnar.

Rom. 8. Gud hlijfde ecke sijnum Eingietnum Syne/ helldur hefur hann giefed hann wt fyrer alla.

Augustij

## Auguſtinus.

ALMattugur Gud Himneſkur Fader/ Huørge ſtendur j Heilagre Ritningu/ ad þu haꝼer komed til vor. Enn vm þinn Son ſkriꝼar Poſtulenn ſuo. Þa Tymeñ var komeñ/ vtſende Gud ſiñ Son Fæddann aꝼ Kuiñu.

Þar hañ nu ſeiger/ Gud ſende hañ/ þa ævyſar hañ þar med/ad hañ ſie ꝼra þier komeñ/og ſendur j þeñañ Heim/ þa hann var boreñ aꝼ Heilagre Jomꝼrw Maria/og byrtiſt j Holldenu algiørdur z ſañur Madur.

Eñ huad er þad ſem hiñ Heilage Johañes hellſte þiña Gudſpiallamaña ſeiger vm hañ/ Hann var j Heiminum/ og Heimurenn var ꝼyrer hañ ſkapadur? Þad er/hañ er i Heimeñ ſendur/ epter Mañdoomenum/eñ epter Guddoomenum heꝼur hañ vered hier alla Tyma/ og er enn.

Suo trwe eg nu aꝼ øllu Hiarta/ og medkieñe med mynum Muñe/ ad ſoddañ wtſending Sonarens ſie Verk allrar Heilagrar Þreñingar. O Goode og Heilage Fader/ Huørſu hiartanlega heꝼur þu oſſ Elſkad? O Giæſkuꝼulle Skapare/ huørſu aluarlega heꝼur þier þetta til Hiarta geinged? Þar þu heꝼur ecke hlyꝼt þynum einka Syne/ helldur gaꝼſt hann vt ꝼyrer oſſ Ogudlegar Mañeſkiur. Þeſſe/ hann er orden þier hlyden allt i Daudañ / ja / allt i Kroſſens Dauda

og

og hefur Handſkriftena vorra Synda burt tekeð/ og feſt hana a Kroſſenn. Hann hefur Syndena Kroſſfeſt/ Daudann deydt. Þeſſe er ſa alleina a medal Framlidenna/ ſem er frij og frials/ og Magtena hefur ad leggia ſitt Lijf fra ſier/ og ad taka þad aptur vorra vegna þegar hann vill.

Þar fyrer er hann hvørtueggia/ bæde Sl g:høfgingenn/ ſo og Fornfæringar Lambed. Sigurhøfdingenn er hann þar fyrer/ ad hann er orden ſo ſem ſlatrunar Lamb fyrer oſſ. Hann er bæde Kiennemadurenn og ſo Fornenn/ og er þar fyrer Kiennemadur/ ad hann er ſialfur orden Foorn.

So er hann nu med riettu mitt Trunaddar Trauſt/ þuiad fyrer hann læknar þu myn Saar/ hann ſem ſitur þier til Hægre Handar/ og er minn Aarnadar madur hia þier.

Auvij Herra/ Mijn Saar eru ſtoor/ og mieg mykel/ ja mørg og ſtoor/ þuiad Hefdinge þeſſarar Verralldar hefur mykeð vallð yfer mier/ þad veit eg/ þad jata eg og medgeing. Enn eg bid þig/ Frelſa þu mig fyrer minn Lauſnara/ fyrer minn Herra og Frelſara Jeſum Chriſtum/ ſem ſitur til þinnar hægre Handar/ j hia hvørium ad Ovinurenn hefur ønguan eigenlega Synd gietad funded.

Minn

Miñ Gud/ giör þu mig Riettlætañ hans vegna/ hvør ed ongua Synd giørdt hefur/ ꝛ j hvørs Muñe alldrei voru Svik fundeñ. Frelsa mig miñ DRottenn/ fyrer hans Skulld/ hvør ad er vort Noþud/ þuiad eg er eirn af hans Limum/ hvørsu Vesall og Aumur sem eg er.

Frelsa þu mig Gud af mijnū Syndū og Glæpum/ fra sekt og Pijnu/ og uppfyll mig med þijnum Heilögum Mannkostum. Gief mier miñ Fader/ ad eg ganga j Nyungu miña Lijfdaga/ og sie stødugur j goodum Verkum/ sem þier vel þoknast/ allt til Dauda/ vegna þijns Heilaga Nafns/ AMEN.

## V

## Huggun fyrer eitt Sorgfullt Hiarta/ sem forlætur sig uppa Riettlæte/ Jarnan ꝛ Forþienan Jesu Christi.

Philipp. 3. Eg helld mitt sialfs Riettlæte fyrer Dreck/ so ad eg hafe Christum j Aviñing/ og j honum fundeñ verde/ hafande ecke mitt Riettlæte/ sē

vt af Løgmalenu er/helldur þad sem kiemur fyrer Truna a Christum/sem er þad Riettlæte/huort af Gude verdur Trunë tilreiknad.



DROTTinn Almattugur Gud/ed ad þū Elskulegur Sonur (sem er þad eilyfa Ord/Johañ. 1. Cap.) hefdir ecke tekeð a sig manndoomlega Natturu/ og hefd aðmedal vor/ þa hefde eg vel mætt vera Eyþasamur og skielfdur/ vegna minā margfalldra Synda/ og Otelianlgra Misgiørninga.

Enn nu þarf eg ecke ad ørvænta/ þuiad hañ hefur Sætt off vid þig med synum Dauda / þa vier vorum þyner Ouiner/ vppa þ ad vier sem nu erum j Sætt vid þig kønnet skylldum fyrer hañ verda Saluholpner.

Þar fyrer set eg allt mitt Traust/ alla mijna Von/stadfastlega vppa hans dyrmætt Blood/huørt ed vthellt er fyrer mijnar Saker/og mier til Saluhialpar/Þar med Endurnær mig og løþga / Þar vppa treyste eg/ og hefe Gyrnd til ad komast til þijn/ Ecke hafande mitt Riettlæte eigenlegt/sē kiemur af Løgmalsins Verkum/ Helldur hitt/ sem kiemur af Trunë a Christum/ Einkum sem er þad Riettlæte/sem Trunë verdur af Gude tilreiknad og eignad/ Amen.

Fagurleg

VI

# Fagurleg Truar Ydkan/ Hu-
at jike ad Kiettruud Manieskia latur sig Forundra Guds Kiærleika z Elsku/ þui ad hann gaf sinn einka Son hefur fyrer ogg utgieþed hugra Fodrn ad er fullkomen Boot og Betalingur fyrer vorar Synder.

Johan. 3. So hefur Gud Heimenn elskad/ ad hann gaf wt sinn Eingietenn Son/ vppa þad ad aller þeir sem ą hann trwa/ fyrerfarest ecke/ helldur ad þeir hafe Eilijft Lijf.

Taulerus.

HEyR þu Fader allrar Naad ar og Myskunar/ Huad er verd siu Auma z Synduga Manneskia/ þad þu hefur hana so elskad/ ad þu utgafst þinn allra kiærasta Son Jesum Christum fyrer þa aumu Syndara/ huørier ed iafnan styggia þig/ iafnan lasta þig og vanheidra/ þo hefur þu elskad þa meir enn hann? Sia þu/ hann verdur ad deya/ sua ad vier skylldum lifa/ Hann dryggest so vier verdum Glader. Hann er Særdur/ vppa þad ad vier skylldum verda Heilbrygder. Hann hefur sijnu dyrmæta Bloode wthellt/ so ad

vier verdum huegner og hreinsader af Syndunum þar med.

Huad hefur þu DRottenn Gud minn sied ad Mañenum þess/ad þu Elskader hañ so miøg og hafder soddañ æstgrooed Hiarta þel til hans? Jaa miñ Fader/til Bitalings z Borgunar fyrer hañ / hefur þu framgiefed þiñ allra dyrmætasta Fiesiood/þad allra Ædsta og besta sem þitt Fødurlegt Hiarta hafde til/ sem er JEsum þiñ elskulega Son/ hui ør ad er Ord þyns Hiarta/fyrer huørt þu hefur boded oss og Byrt þiñ Kiærleika/ og j huørium þu oss/ j fra Upphafe Fødurlega og æstsamlega hefur elskad.

Þu sañur Gud hiartans Kiæraste Fader/ fyrergief mier aumum Þræl þynum allar mynar Synder/vegna þeirrar myklu æstar/ og trulegrar Aarnanar og fyrer bonar þyns elskulega Sonar. Medtak þu minn Gud þad allra Heilagasta Offur þyns eingietens Sonar/ og minst ecke a Synder þyns onyta Þræls/ þuiad hann hefur meir og framar þier bitalad/ enn eg var skylldugur. Ad þÿsu Fader / ef þu villt bera samañ myna Hreckuÿsse vid hans Giæsku/ mynar Synder vid hañs Forþienustu og beisku Pynu/þa er hanns Blood og Myskun og Forþienan otel lianlega meire enn allar mynar Synder.

Þuiad huørnen kann nockur Synd ad vera so þung / ad hun verde ecke bætt mz soddan Hlydne/ soddan Lytelæte/ soddan Þollenmæde/ og sierdeilis med soddan Ovmræl

deles

velegre / ofeigianlegre Aast og Elsku þyns Sonar? Hværnen kann nockur Mißgiørningur ad vera so stoor / ad hann þyrer Sonarens Aastrykan Bloodugan Sveita / og þyrer hans Heilaga Dyrmæta Blood / ecke verde aþþveigen og Hreinsadur?

Hvør Glæpur er nøckurn tyma so hrædelegur / ad hann þyrer bitran Dauda og beisku Pynu JESV Christi / ecke verde þyrergieþen / borgadur og bitaladur?

# VII.

## Agiæt Þackargiord til GVds Fødurs / þyrer alla Velgiørninga sem han̄ hefur veitt oss þyrer sin̄ Son JEsum Christum.

Syrach. 43. Loþed og dyrked DROTTENN þad fremst þier formeged / þo er hann enn hærre / pryssed han̄ aþ øllum Kroptum / og lated ecke aþ / þo munu þier þad ecke høndlad gieta.

Augustinus.

Himneske Fader / þu hinn Goode og Giæskuþulle / sem elskar oss Aumar Manneskiur / eg giøre þier Packer aþ Hiarta / ad þu fyrer þinn Son Hefur skapad mig / þa eg var eckert / og þa

eg vegna minna Synda var Forlapadur/ hefur þu mig dasamlega leyst og frelsad aptur. Ad vijsu/ eg þacka þinne Nad og Giæsku/ og af ollu Hiarta seige eg þier Lof og Packar giørd/fyrer þad/ ad þu hefur sent og giefed þin eingieten Son/vt af þijnu Skaute/ oss Auma og Synduga Sæluholpna ad giøra/vier sem vorum Born Reidennar og Daudans.

Eg þacka þier Himneskur Fader/fyrer hans Hollbgan og Hingadkomu/ ad þu hefur vorrar Sæluhialpar vegna / læted hann taka Mañdomlega Natturu af sinne Blessadre Moder af henne fæddur/ lijka so sem hann er sannur GUD af Gude komenn. Eg þacka þier eilijfur Gud/ fyrer hans Kuol/ Kross og Pijnu / fyrer hans Dauda og Vpprisu / fyrer hanns Vppstigning/og Setu i Dyrdeñe til þin nar hægre Handar. Þuiad a hinum fertugasta Deige epter sijna Vpprisu/ þa er hañ vppfarenn yfer alla Himna/ ad asiaondum sijnum Læresueinum/ og sette sig til þinnar Hægre Handar / og hefur vthellt þeim Heilaga Anda/ epter sijnu

Fyrerheite/yper oss/vier sem erum hans Samarþar. Eg þacka þier DRotten minn GVD/ pyrer hans Dyrmæta Blood/sem hañ hepur vthellt oss til Endurlausnar/ eg þacka þier pyrer þad hugsunarsamlega Sacramentum hans Holldꝭ og Bloodꝭ/med huoriu vier Daglega i Christelegre Kyrkiu verdum sadder/ Lijpgader/Hreinsader/ og Helgader/ og erum hluttakarar ordner þinna Velgierninga.

Eg þacka þier Himneskur Fader/fyrer þijna Dasamlega og oseigiañlega Aast ꝫ Elsku/med huorre þu oss Overduga hepur so stoorlega elskad/ ꝫ fyrer þiñ elsku lega Son oss Sæluholpna giørt. Þuiad so hefur þu Drottenn Heimeñ elskad/ ad þu gafst vt þiñ Elskulegañ Son/ vppa þad / ad aller þeir sem trua / skule ecke fortapast/ helldur hapa Eilijpt Lijp/enn þad er Eilijpt Lijp / ad þeir þyrer sanna Tru/ og riettaTruarennar Avøxtu þecke og vidurkieñe þig ad vera alleina sannañ GVD / og IESVM Christum þañ sem þu vtsent hefur/ AMEN.

## VIII

# Agiætleg Hugleiding og Hugxan um þa myklu Guds Naad og Giæsku/ sem er yfer øllum þeim/ sem Jdrast Syndanna.

**Psalm. 103.** Myskun Drottens var er fra Eilyfd til Eilyfdar/ yfer þeim sem hañ Ottast/ og hans Riettlæte yfer Barna Bornonum.

DROTTeñ Skapare allra Hluta/ Dasamlegr ertu j øllũ þijnum Verkum/ Eñ allra hellst og mest ertu Dasamlegur med þiñe Naad og Myskun. Þar fyrer hefur þu so talad fyrer Muñ Þioons þyns Davids/ Drotteñ hañ Myskunar sig yfer øll syn Verk.

Þad er og eitniñ vor Tru/ ad þu meinter allt þitt Foolk/ og hvørr einn Sierdeilis/ þar þu svo talar / Minne Myskunsemd vil eg ecke snua fra hønum. Þutad þu Drotteñ fyrerlytur ønguañ/ ef ad vor Vantru velldur þui ecke. Þu ert ecke fliootur ad refsa j þiñe Reide/ Helldur ertu Naadugur øllum þeim sem þig styggia / ef ad þeir ad eins giøra Jdran.

Miñ

Min Gud sem ert Horn mijns Hialprędis og mitt Skiool/ Eg Aumur hefe Stigdt og moodgad þig/ Ja/ Eg hefe illt giördt fyr er þijnu Auglite. Þyna Reide hef eg upp-vaked/ og þyna Refsing hef eg Forþient/ Eg Syndgadest / og þu hefur hlyfdt mier/ Eg hefe illa breytt / og þu hefur enn nu Þolenmæde vid mig.

Ad vijsu DROTTen/ Þegar eg giöre Rðran/ þa Hlyfer þu mier og Væger/ Þeg' eg sny mier til þijn/ þa tekur þu vid mier. Ja ad vijsu/ Þa eg dreg undan ad Ydrast/ þa bijdur þu epter mier. Þa eg fer ville/ þa kallar þu a mig. Þa eg þuerskallast a moote þier/ þa lokar þu mig. Þa eg letst upp og tregast / þa bijdur þu epter mier. Þegar eg kiem til þijn/ þa tekur þu vid mi er. Þegar eg er Hryggur/ þa huggar þu mig. Þegar eg fell/ þa reyser þu mig upp apt:/ og giörer mig Hoolpen. Þegar eg bid/ þa bænheyrer þu mig. Þegar eg leita / lætur þu mig finna. Þegar eg klappa a Dyrnar/ þa lætur þu upp fyrer mier.

Sia þu þa DROTTen Gud/ minn Lausnare/ Fader og Frelsare/ Hugrenen kann eg þier lykt fyrer lykt ad bitala ? Huar fyrer kann eg þier lykt fyrer lykt ad endurgio allda ? Þad er mier ecke mögulegt. Nu er þar eingin Hialp annarstadar enn hia þier/ Ja/eg veit huerge ad flya nema til þin/ þu hefur vijsad mier Veigenn/ a huerium eg a riettelega ad ganga/og lated mig vita huer-

nen̄ eg æ ad lifa. Þu hefur hootad mier Sæluqte / enn fyrerheited mier Paradijsar Fagnude/ ef eg hlyde þier.

Nu bid eg Fader Miskunarennar / þu GUD allrar Huggunar / græf þu mitt Hiarta i giegnum/ med þinne Skielfingu/ so ad eg med Otta og Hræzlu meige fordast þad þu hefur mier hootad / og hugga mig aptur med Hialp þinne/ suo eg med Glede medtake og ödlest þad / sem þu hefur mier fyrerheited. DROTTEN minn Styrkur/mitt Øruggt Vigge/mijn Hlijfd/min̄ Gud/ og minn Frelsare/ minntu mig æ þad/ huad eg æ ad hupa vm þig / kiendu mier ad akalla þig/ og gief mier þau Verk ad giöra sem eru þægeleg/fyrer þin̄ Heilaga Anda/vegna þijns Elskulega Sonar vors DROTTins JESV Christi/ AMEN.

## I X.

## Ein huggunarsamleg Bæn j huorre ad Packlatt Hiarta gledur sig vid oseigian̄lega Ast og Elsku Gudʒ/sem̄ han̄ hefur oss synt i sijnum elskulega Syne.

1. Joh. 4. J þui byrtest GVDs Kiærleike til vor / ad GVD sende sin̄ eingietenn Son i þennan̄ Heim / so ad vier mættum lifa fyrer hann. Þar

inne er faleñ Kiærleikurenn / ecke þad ad vier hofū elskad Gud / helldur þad hañ elskade oss / og sende siñ Son til Forlijkunar fyrer vorar Synder.

Augustinus.

O Huilijk ofeigianleg Giæska z O umræðeleg Elska er slijkt? Þinn Son hefur þu / GUD Fader og DROTTENN utgiefed / til ad endurleysa þiñ Þræl. GUD er ordeñ Madur / so ad su tynda Manneskia leyst og frelsud yrde fra Diøfulsins Vallde. Vor GUD / huorsu hiartanlega hefur þinn Sonur Manneskiuna elskad? Hann liet sier ecke nægia ad audmykia og lijtelækka sig / og fædast Madur af Jomfru Maria / helldur þa hefur hañ lided Pijnu og Dauda a Krossenum / og hefur uthellt sijnu Bloode vegna vor / og vorrar Sæluhialpar. Sa Millde og Myskunarfulle GUD er komeñ / hann er komeñ epter Giæsku og Goodgirnd sinne. Hañ er komeñ upp ad leita / og Sæluholped ad giøra þad sem fortapad var / hann leitade epter þeim tynda og tapada Saud / og hefur fundeð hann / og hefur lagt hann a sijnar Herdar og bored hann aptur til Saudahussena / sa gode GUD og Trufaste Hirder.

Oh hulijk Elska / hulijk Giæska er slijkt? Huør hefur slijkt heyrt eda sied? Huør vill

lata

læta soddan Hiartanlega Myskun ecke gang ga sier til Hiarta ? Hvør vill slyktt ecke stor lega þurda ? Hvør vill ecke þagna og vera gladur / af soddan Ast og Elsku / sem þu hefur synt oss ?

DROTTINN GVD vor / þu hefur sendt oss þinn Son / so ad hann tæke a sig Mynd syndsamlegs Holds / til ad fordæma Syndena / þuiad hann er þad rietta og saña blecklausa Lamb / sem burt hefur tekid ver alldarennar Synder / og hefur med synum Dauda vorn Dauda ad øngvu giørt / z þyrer syna Vpprisu gefur hann oss Lyfed aptur.

Vor GVD / hvørnen gietum vier þier so stora hæleita Velgiørninga endurgolldid ? Hvad byrer Lof og Packargiørd kuñum vier ad veita þier ? Þo vier hefdum Visku Heilagra Eingla / þa gietum vier alldrei soddan Giæsku og Myskun þier bitalad / ad vysu / þott aller vorer Lider og Limer kynne ad tala / þa þaum vier þo alldrei fullþackad / þuiad þyn Ovmrædeleg Ast og Elska sem þu hefur synt og veitt oss overdugum / af þinne Giæsku / hun yfergiengur allt an vorn Skilning.



# IV. Capitule

## Hefur inne ad hallda Bæn er og Þackargiørder til Guds Sonar/ sem er Herran Jesus Christus.

### I.

### Ein Bæn til Herrans Christum/ j huørre Hiartad Mañsins miß kieñer sijna Synd/ og bidur vm Syndañs Frrergiefning.

Psalm. 103. Hañ breyter ecke vid oss epter vorum Syndum / og ecke endurgielldur hañ oss epter vorum Misgiørningum.

Augustinus.

HErra JEsu CHriste/ miñ Trufaste Lausnare/ Eg jata og medgeing miñ Misgiørning/ fyrer þynu Guddomlegu Majestatis Auglite. Sia þu DROTTeñ/ j Syndeñe er eg Gieteñ z

Fæd-

Fǽddur/ og þu hefur þuieged mig og Kreis nsad/ en þar epter æ hefe eg Saurgad mig aptur ad nyu/med meire og stærre Syndum Þuiad j Oppruna Syndene er eg Fæddur/ en j Giøranlegum Syndum hefe eg mitt allan Alldur aled.

En þu DROTTenn Jesu Christe/mínæst æ Myskim þijna/og tookst mig wr Hwse mis ns holldlegs Fǽdurs/ og wr Selskap Syndugra og gafst mier þad j Hiarta ad fylgia þier/ æsamt med þeim ødrum sem leita þijns Andlitis/z ganga æ riettu Veige.

En fyrer suoddan Velgiǿrninga/hefe eg vered Oþacklatur. Eg hefe giǿrde marge Illt/og framed þiølda Synda/ Og j þann stad eg hefe att ad betra mitt Lifnad/ þa hefe eg Syndum z Glæpum auked z safnad.

Auvý Herra Jesu/ Eg hefe Syndgast/ Jaa/ Eg sem þu skapad hefur epter þinne Mynd/ eg hefe þig Vanheidrad/og saurgad sialfan mig med Mietnade/ Siergirnde/Saurugletka/og fleyrum ødrum Syndum/med þui ørium mijn Auma Saal er þyngd/ þijnd og plægud.

Sia þu Herra Jesu/mijnar Synder gants ga mier vpp yfer Høfud/ suo sem ein Ob byrrleg Byrde/ eru þær mier ofþungar/Og þar sem þu hiellder mier eke vid Magt med hægre Hende þinar Dyrdar/þu sem ert af Nattúru til Myskunsamur / þa munde eg aumlega Fyrerfarast.

Minstu DROTTenn þar æ/ ad þu ert sa sem

sa sem mig hreinsar/ og Helgar. Siaa þu/ hueꝛsu min̄ Oꝛvinur han̄ hæleſt vm vid mig/ og seiger/ DROTTen̄ hefur yfergiefed hn̄/ Ellted hn̄ og grypped / þuiad þar er eingen̄ sem hialpar hønum. Snu þier vid Drottenn min̄/ og Frelsa Saal mijna/ Hialpa mier vegna þinnar Myskunar.

Herra Jesu/ Siaa þu aumur a þiſſe Barnskiepnu / huøria þu hefur aled med storre Kvøl og Pijnu/ og lyt ecke so grandvarlega a mijnar Illſkur og Synder/ ad þu þar fyrer gleymer þiſſe Myskun. Hver er sa Fader ad han̄ hialpe ecke Barne synu? Huør er sa Sonur/ sem ecke þarf Hyrtingar vid?

O Herra Jesu/ Elſkulege Fader/ þo ad eg sie Syndugr/ þa er eg þo þin̄ Sonur/ þuiad þu hefur ſkapad mig og Endurleyſt. Eg hefe Syndgad og jlla breytt/ Fyrergief þu mier þad. Og þo so sie/ ad þu Ager og Typter mig/ þa yfergief þu ecke Barnſkiepnu þyna. Kan̄ uøckud Mooduren̄ ad gleyma Barne synu svo hun siaae ecke aumur a synu Afkuæme/ sem hun hefur bored fyrer syns Hiarta? Nu þo hun gleyme þui/ þa hefur þu Himneſke Fader tilsagt og lofad ad gleyma mier alldrei. Herra Jesu Chriſte/ Styrk þu Hiarta mitt/ med þeſſu þynu Huggunar Fyrerheite / allt til mina Afſeloka fyrer Krapt og Hiaſtod þyns Heilaga Anda/ AMEN.

2. Eiñ

II

# Ein Huggunarsamleg Bæn/

## J huorre Madur hugleider og klagar huørsu hañ med sijnum Syndum/ sie Søk og Efne til Pijnu og Pijslar Jesu Christi/ og huggar sig þo vid hans Nad og Myskun.

Esa. 53. Ad sonu þa bar hañ vorn siukdoom/ og vorū Mrygdum hlood hañ a sig.

Augustinus.



Herra JEsu/ huad hefur þu vñed til/ þu Elskulegaste Guds Son/ ad þu ert suo útleikeñ? Huad hefur þu þess misgiørdt/ ad so er sárgrætelega med þig farid? Huad hefur þu Synndgad? J huøriu hefur þu misgiørt? Huar er Søk og Efne til þijns Dauda? Hu ørnñ kiemur þad til/ ad suoddañ Afelliß doomur er yfer þig felldur?

Eg/ Eg er Søkeñ og Efnid þar til/ ad þu ert so Pijndur: Hia mier er Søkenn þijns Dauda. O Herra Jesu/ þad þu ert Lijf latenn/ þad er myn Skulld/ þad þu ert Pijndur og Kvaleñ/ þad hef eg Verkad/ Eg er hañ/ sem þig hefur Særdt og Sleiged/ og hier Ervide giørdt med mijnum Syndum.

Mīñ Lausnare/ Huørsu furdulegur og

fra heyrdur

Þadeyrdur Vrskurdur er þetta? Huad Mi-
ymradelegur Leyndardoomur er slykt? Sa
Ranglæte Syndgar/eñ hiñ Riettlæte lyd-
Refsingena þar fyrer/sa Seke vinur til Re-
fsingariñr/ eñ hiñ Saklause ber skulldena/ z
verdur Refstur/ Sa Ogudlege hefur vppby-
riad þad Vonda/ eñ sa Heilagaste þær æfell
is Doom þar fyrer. Huad sa hiñ Vonde
hefur Forskulldad/þess verdur sa Riettlæte
ad gialda. Huad Þrælleñ misgiørde/ þar
fyrer verdur Herrañ ad betala. Huad Mañ-
neskiañ hefur broted/þess verdur sialfr Gud
ad gialda.

Oh þu Elskþur Sonur Guds/Huad myk-
el er þyn Audmykt? Huørsu breñande er
Aast og Elska þijn? Huad rykugleg er þyn
Myskun? Huørsu yfergnæfanleg er þyn
Giæska? Huad Dyrdleg er þijn Goodvilld?
Huørsu hiartanleg er þyn Medaumkan og
Myskun? Eg hefe Syndgast/ eñ þu tekur
Giølldeñ þar fyrer/ eg hefe Jlla giørdt/ eñ
þu verdur Refsadur/ eg hefe Broted og mis-
giørdt/eñ þu verdr þar þ Pijndr. Jæ eg vr
Drambsãur eñ þu verdur Lytelækadr/ eg
var Ohlydugur/ eñ þu hefur med þinne Hl-
ydne betalad Refsingina minar Ohlydne/ eg
hefe lifad j ofnøytslu Matar z Dryckiar/ eñ
þu leidst Hungur og Þorsta/ myn vond Gyr-
nd hefur drifed mig til Synda og Ølæpa/
eñ þyn Hiartanleg Aast og Elska kom þier
vpp a Kr ossen/ mīna vegna/Eg æt af þui

sem mier var bañad / eñ þu verdur pÿndur
þar fyrer/ eg hefe neitt þess Krossfelega og
lystuga/eñ þu leidst þa beysku Kuøl a Kr
ossenum / eg hefe lifad i Vellyst og Sælg
ære/ Enn þu liest þig med Jarngødduñ
negla a Krossen/ eg dreck þad sem er Sætt
og Lystelegt/eñ þu smackar þ sem er beyskt
og Surt.

Sia þu Kongur Dyrdareñar/ Sia þu/
hier er myn Synd/ eñ þar er Naad þyn og
Myskun. Sia þu Jesu miñ Kaufmare/ þe
tta er myn Ohlydne/ eñ þar lidomar þitt
Riettlæte. Miñ Kongur og miñ Gud/ Hu
ørneñ a eg ad betala þier allt þad gott sem
þu hefur veitt mier? Hialpa mier Herra
Jesu Christe/ad eg mætte med stødugre Tru
Loka og Dyrka þig hier stundlega / enn
annars Heims eilÿflega.

## III

# Ein Hugarlætleg Bæn/ til
## Herrans Christum/ vm Fyrergefning
### Syndaña/ z vm nytt Christelgt Frampferde.

Psal. 143. Drotteñ / Kiendu mier ad
lifa ept' þÿnum Vilia/ þui þu ert miñ
Gud/ Lat þiñ gooda Anda leida mig
a riettañ Veg.

Augu

Auguſtinus.

JESV CHriſte/ þu Eilijfa Ord Födurſins/þu ſem kominn ert j þeñañ Heim/Sæluholpna ad giøra þa ſyndugu/eg bid þig fyrer þijna hiartgroona mykla Myſkun/ bæt þu miñ Lifnad / og endurnya mig mijnu Lijfe og Frañferde.

Miñ Gud/tak fra mier huad mier er ſkadlegt/og þad ſem þier ecke þocknaſt/ og gief mier þad ſem þier er þægelegt/ og mier er gagnlegt. Huor kañ ad hreinſa þañ ſem getenñ er af ſyndſamlegu Sæde/ vtañ þu alleina? Þuiad þu Almaatkugur Gud ert Dumrædelega mykell og Goodur/ þu ſem Riettlætañ giører þañ Oguðlega/og lijfgar þañ ſem vegna Syndaña er daudur/ Þu ſem ad ſnyr þeim Synduga fra hans rongum Veige/ ſuo ad hann ſyndge ecke framar meir.

Miñ Lauſnare/ tak burt fra mier allt þad ſ þier er ecke þægelegt/ Þt þu ſier miñ vanmætt/og þu veitſt miñ Breſt allañ. Riettu ad mier þijna Myſkunar Hønd/og ſnypt fra mier øllu þui ſem fyr

er þijnum Myskunar Augum er ecke þæ gelegt. DROTTen/ þyrer þier er huørtueggia Heilbrygde mijn og min Van mattur / Eg bid þig/ halltu mier vid Heilsu mijna/ og lækna min Siukdom. Lækna mig Drottenn/ þa verd eg Heilbry gdur/ Hialpa mier/ þa er eg Hoolpenn/ Jæ/ þu DROTTenn sem læknar þa Siuku/ og hellour þeim vid Heilsuna sin Heilbrygder eru. Þu alleina mz Orde þijnu einu/ rietter þad vid ē þalled er ꝛ fordiarþad/ Þuiad ef þu villt nidur sæ þijnu gooda Sæde j Akur mijns Hiarta/ þa hlijtur þu ædur ad rijþa j burtu Þyrn ena mina Synda/ med þinne Myskunar Hende.

Þu hin Sæte/ Elskulege/ Goode og Giæskuþulle/ Millde og Myskunsame/ þu allra liuþaste Lausnare/ Herra JEsu Christe/hellltu j Hiarta mitt Aast og Elsku þine/ so ad eg hafe ei gyrnd nie Gied þeckne æ nockru þui sem er Holldlegt ed ur Jardneskt/ Helldur ad eg Elske þig alleina/og haþe þig alleina j mijnu Hiar ta og j mijnum Munne. Skriþa þu med

Fijngre

Yngre þijnum, a Hiarta mitt/ Aafſam lega Miñing þijns ſæta Naphns/ ſo ad eg gleyme þui ecke/ og ad ecke verde nock urn tijma aþmead Miñing þijns Nafns wr mijnu Hiarta.

Uppteudra og kueik mitt Hugſkot miñ GUD/ med Ellde þijns Anda/ ſuo ad eg kunne ad Fornþæra þier med heitum Tarum/ Hrÿgdarfullañ Anda/ eitt kleckt og ſunðurknoſad Hiarta. Skrifa þinn Vilia a þijn Riettinde a Spiøld Hiarta mijns/ ſo ad eg þig DROTTENn/ þijna Giæſku/ þijn Bodord mier jafnan fyrer Augum hafe/ AMEN.

IIII.

# Ein Good Bæn / i huørre

Madur bidur hugarlæglega/ ad hans Hiarta/ ſem er Steinenum hardara/ mætte vegna Aaſtar og Elſku JEſu Chriſti klo ckt verda/ og græta af Hiarta ſijnar Synder.

Auguſtinus.

HEr hinn goode og Giæſkurijke Herra JESU Chriſte / gieþ mier ſo ſem eg af øllu Hiarta girneſt ad eg

kunne ad bera fram fyrer þig heilaga Aast / og hreinferduga Elsku / ad hun mig eignest/og allann uppfylle/ og veit mier þad/ ad eg til eins vissulegs merkis um æst og Elsku til þijn/mætte beisklega græta/ og med saknade / so ad Taar mijn mætte bera Vitne um þad/ad eg elske þig af Hiarta/og ad þau audsyne hvørsu kærann Saal mijn hefur þig/m3 þui hun kan ecke anad/ vegna þeirrar Aastar þinnar/ enn ad græta.

GOode Herra/ eg minnest þar a/ hvørsu ad su gooda Kuina Anna/ 1. Sam. 1. Kom i Mustered/ bad þig um eirn Son/ um hvøria skrifad stendur/ ad þa hun hafde lofed sinne Bæn med grætande Taarum / þa vär hun ecke leingur Sorgfull. Þegar eg nu hugleide soddan Sijne/og soddan Stgreng leik/ þa hrelles eg og skammast mijn / ad eg Vesæll Madur er suo alldeilis eckert/og ad mitt Hiarta þad er so kallt hia þui sem hennar Hiarta hefur vered. Þuiad ef ein Kuinna kunne so hiartanlega ad græta/ og liet ecke af / hun sem ecke bad nema um eirn Son/ hvørsu myklu framar mætte mijn Saal ad græta vaflæatanlega/ hun sem leitar ad þier / og þeigen villde koma til þijn ? Oh hvørsu miøg ættu þær Saaler ad græta og andvarpa / sem GUds sijna leita

Mott

Nott og Dag/ og ecke elska annad en JE-SUM Christum? Sannarlega þa ætte Tarenn ad vera þeirra Fæda bæde Nott og Dag.

Þar þyrer minn GUD / Myskuna þu þig yfer mig/ þuiad eg hefe stoora Ku ol i mijnu Hiarta/giefz mier þijna Huggū afz Himnum ofzan/ og þyrerlyt ecke þessa Synduga Sal/ þyrer huoria þu ert dæ enn. Veit þu mier/ad eg afz øllu Hiar ta kunne ad græta so eg verde laus vid Synder mijnar/og ad Sal mijn yrde full afz himneskum Fognude. Og þo ad eg kunne ecke mz þeim hrausstu Truarstyr-kou Forfzedrum (huorra Fotsporum mier er omøgulegt ad næ) ad bidia sem vera ætte/ þa lat mig þo med þeim Gudhræddu Kuinum fa og ødlast mitt lijted Hlutskipte i þijnu Rijke.

EG hyra og eirnen vm eina adra Kuinnu/ vm huøria skrifad sten dur/Johann. 21. Hugsru hiartanlega hun hefur þig elskad HErra JESU / og afz godfzysre Aast epter þier leitad i Grøfenne. Þui þa Lære sueinarner sneru heim aptur / þa veik hun ecke fra Grøfenne/ sat þar Hrygdar full og Sorgbitenn/ og griet storlega/ stood vpp jaf-

þnþramme og leit jnn i Grøpena/ ep ad skie
mætte/ ad hun þeinge ad sia þig/ huørn hun
so hiartanlega elskade/ þuiad optar enn eitt
sinn hefur hun geinged i Grøpena/ vt og jñ
og hefur skygnst epter þier/ enn vegna þeirr
rar myklu Elsku sem hun haþde til þyn/ þa
liet hun sier þetta ecke nægia þuiad þad ei
na giører huørt gott Verk gott og þæget
legt/ ep Madur er stadfastur i þui enu sa
ma. Nu med þui hun elskade þig meir
enn adrer/ og griet af Aast og Elsku þiñe/
og leitade þyn med Grætande Tarum/ og
var stadføst i þui ad leita þyn / þar þyrer
hefur hun þig allra þyrst þunded og sied/ &
vid þig talad. Ad ryſu / þu openberader
þig þyrer henne/ecke alleinasta þyrst/helldur
þa hefur hun allra þyrst Lærestueinum kuñ
giørt og bodad þyna gledelega Vpprisu/ þui
þu baudst henne þad/ seigiande / þar þu og
sieg mynum Brædrum/ ad þeir þare i Gali
leam/ þar munu þeir sia mig.

So sem ad þesse Kuinna hun griet / og
liet ecke af/ og leitade þess Liþanda hia Da
udum/ æhrærde þig med Truarennar Hön
dum/ Skyllde myn Saal þa ecke oaflaatanle
ga græta/ hun sem truer a þig/sinn Endur
lausnara ? Og þig medkienner/ þu sem ert
a Himnum vppe og stiornar øllum Hlutū?
Skyllde myn Saal þa ecke græta og Andv
varpa sem þig elskar af øllu Hiarta/ og
stora þorleingıng heþur ad sia
þig og skoda.

Ø þu

Ó Þu einka Von allra þeirra enu Aumu/ og þeirra Skiool og Hæle/ þu sem þijna Myskun ecke af seiger nockrū þeim sem þig bidur / vnn mier þinnar Nꝫdar/vegna þijns Heilaga Nafns/ so ad eg hyre alla Tijma til þijn/tale vm þig/ skrife og lese vm̄ þig / og ad mijn Ræda sie vm̄ þig / og ad eg sie jafnañ minnugur þijn / kome jafnan fyrer þitt Auglit med minne Bæn / og fære þier mitt Lofgiørdar Offur / so ad mijn Augu þelle Taar vegna þinnar Elsku/og fyrer þier Hiartañlega græte/af þeim Fognude/ sem eg hefe i þier.

V

# Ein Agiæt Bæn/ j hvørre

ad Hrygdarfullur Ande hladeñ af þizlda Syndaña/huggar sig vid Jesu Christi Naad og Myskun.

Psalm. 143. DROTTEN gack þu ecke j Doom vid Þræl þiñ/ Þui ad fyrer þier er eingeñ Lifande Madr Riettlaatur.

## Augustinus.

JEsu min̄ Endurlausnare/ Sia þu/ Eg ækalla þig og þu bænheyrer mig ecke. Eg lyd Kuøl og Angist/ og þu huggar mig ecke. Huad skal eg seigia? Huad skal eg Aũur Madur til giøra? Mitt Hiarta er Huggunarlaust/ og eg er wtreken̄ fra þynum Augum.

Vei mier Vesælum: Huørnen̄ er eg þa fleen̄ j fra þeim hæsta Heidre/ og er komen̄ j stærstu Neyd og Hørmung? Huørt æcla ade eg mier? Huørt er eg komen̄? Huar er eg? Eda huar er eg ecke? Epter huørium forleinger mig? Og huar er eg med mi- ne Veinan og Andvarpan? Auvo/ Auvÿ.

Eg meinte eg hefde heyrdt þad hid Goot da/ en̄ sia/ þar er ecke nema skadsemd. Sia nu verd eg ad deyia/ og min̄ JEsus er ecke med mier. Ach og Auvÿ: Betra være mier ad vera alla ecfert/ en̄ ad hafa ecke JEsum med mier. Betra er ad vera ecke lifande/ en̄ ad lifa an hanns/ sem er Lyfed/

O Herra JEsu/ Huar eru þinar gømlu Myskunsemder þuar? Villtu æfenlega vera Reidur? Vertu mier vm syder Naadugur/ Myskuna þu mier/ og snw ecke Auglite þinu fra mier/ Þui þu snerer ecke fra þeim sem skyttu og hraktu æ þad / þa þu endurleyster mig.

O Jesu

O JEsu minn Lausnare/ minn Hialpare Eg medkiene og Jꜳta þyrer þier/ eg heþe syndgast/ og mijn Samvitska heþr ur Fyrerdæmingena þorþient/ og mijn Ydran er ecke noogleg þar þyrer. Enn þar a moote/ þa er þad vijst og satt/ ad þijn Myskun er stærre enn allar Heimsins Synder. Goode Herra JEsu/ gack ecke j Doom vid Þræl þinn/ helldur aþmꜳ og vtslieтт mijnar Synder/ epter Stærd þinnar Myskunar/ Amen.

## VI

## Ein øñur Bæn/ j huørre ad

Mannsins Hiarta Syndanna vegna/ er mijøg skialþande/ þyrer stranga Guds Riett læte/ enn huggar sig þo vid Jesu Christi Tradn/ og bidur vm gott og gudlegt Framferde.

1. Tim. 1. Þad eru vissuleg Sañende/ og eitt Dyrmætt Verdugt Ord/ ad Jesus Christus er komenn j Heimenn til ad giøra Sæluholpna þa Syndruga/ a medal huørra eg er hiñ hellste.



EI/ Vei mier Vesælum/ þegar dagur Doomsins kiemur/og Bx-kur Samvitskunanna verda vpplat-nar/ þegar sagt verdur til myn/ Giæd þar Mañ og hans Verk. Herra min Gud/ Huad mun eg þa segia? Pegar Himnenn opeñbera mynar Misgiørd-er/ og Jørdiñ stendur mier ᴊ moote? Sia þu/ eg mun ecke geta suarad einu Orde/hel-lldur mun'eg med skialþta og Hrædslu stan-da ḃyrer þier/ skamast myn/og ecke þora ad vpplypta mynu Augũ/eda ansa einu Orde.

Vei mier Vesælum/ Huad skal eg giøra? Eg vil Hroopa og kalla til Guds myns Dr-ottens. Huiad/ hvar ḃyrer skal eg þeigia ꝫ kordiarḃast? Nu þo eg vilie tala/ þa mynst ar ecke myn Pyna ad helldur/ Eñ ep eg þeig-ie/þa hef eg hid jñra stoora Hiartans Rvøl og Angist.

Oh myn Saal/Græt þu so sem ein Ekia sem mist hefr Brwdguma sin/ Græt þu þin Auma Saal/ Huiad þiñ Brwdgume/þad er Christur/hañ hefur yḃergiefed þig. O þu Reide hins Almattuga Guds/ hall þu ecke yḃer mig/ kuiad þu ert mier Obæreleg og Olydanleg. O JEsu min Lausnare/Myl-skuna þu mier/ hialpa þu mier so eg ørum-lest ecke / helldur ad eg mætte þressast vid. O; þo eg hafe forskulldad eilyḃan Dauda ꝫ Fyrerdæmingena/ þa hefur þu þo lofad ad hialpa mier / kuiad ecke gyrnest þu Dauda hins Synduga/og ecke hefur þu Gledeſkne

æ nockurn Mañs Fordiæðan, Ad visu/þu ert Daenn vppa þad/ ad þeir Daudu mætte lika/ og fyrer þinn Dauda heþur þu deydt Daudañ þins Syndugа/ og fyrer þiñ Dau da erum vier Lifande orduer.

Minn GVD og HERRA / eg bid þig/ lat mig ecke forderfast i mijnum Syndum/ þuiad þu ert Lijfed / riett þu Hønd þijna af Hædenne ofañ/og frelsa mig fra Syndū mijnum / suo ad Andskoteñ fagne ecke yfer Offørum mijnum/og seige/ eg hefe hañ vppi suelgt og sigrad. O goode JESV/ huor vill nøckurn tijma hafa Efasemd eda Mistraust a Myskun þinne? Þuiad þa vier vorum i Oviuskap vid þig / þa leyster þu off med þijnu Bloode / og sætter off vid GVD/ sia þu / vnder Skugga Myskunar þinar er eg hoolpeñ og eg fly til Nadarstol sins þinnar Dyrdar / og bid vm Nad og Hialp / eg kalla og klappa a Dyrnar / allt þangad til þu sier Aumur a mier/og lætur vpp fyrer mier. Þuiad med þui þu kallader off til Nadarennar/þa vier leitum hennar ecke/ huad myklu fremar muñ vier nu Nad ødlast/ef ad vier girnunst hāa og leitum hennar af Hiarta?

Þu milldе og Myskunarfulle JESV/ huka ecke vm þitt Riettlæte v.d mig Syndu gañ / helldur minnstu a Myskun vid mig Skiepnu þijna. Minnstu ecke a Reide na vid þañ Seka/ helldur a Myskun þijna vid þann Auma, Gleim þu Drambsemie

þess

þess sem þig moodgad heþur / og allt þann Auma sem þig akallar. Huad er Jesus? Er hañ ecke Lausnare/ Frelsare/ Hialpare? Þar byrer hialpa þu mier JESV byrer sial han þig/ og seigdu so til Saalar minnar/eg er þyn Hialp. HERRA JESV/eg bot læt mig vissulega vppa þig/vppa þyna Giæsku / huad þu heþur kient mier ad leita/ bidia og æ ad klappa. Og med þui ad þu sialþur aminner mig/ þa vil eg leita og bidia og beria. DROTTENN þu sem skipar ad bidia / lat mig þad fa / þu sem kienner mier ad leita/lat mig þad finna/þu sem byduer mier ad beria/ lat þu vpp byrer mier. Styrk þu mig/ huad eg er Veykur/ hialpa þu mier huad eg er tyndr / vppvek þu mig huad mitt Hiarta er Daudt.
Styr og stiorna ællum mijnum Skilningarvitum/ Ordum og Hugsnum/og Giørdū/ epter þijnum Vilia / suo ad eg nu hier epter þione þier / elske þig / og geþe mig þier i Valld. DROTTENN/eg veit vel/ eg er þier skylldugur vm sialþan mig/huad þu heþur skapad mig. Eñ med þui þu ert ordeñ eirn Madur byrer mig/þa er eg meira skylldugur þier eñ vm sialþan mig / vær þ møgulegt/ ia ad vijsu/ eg er þier vm so mijkid skylldugur/so sem þ þu ert meire eñ eg/ byrer huorn þu heþr þig sialþañ vtgieþed.
Enn miñ Lausnare / lijttu þar a/ ad eg ad eins þormaa og megna ecke/ helldur og ecki neitt/ ef eg þormegna nockud / þa giet eg
þad

þad ecke aun þinnar Hialpar giørt. Þar fyrer tak þu mig ad þier / drag þu mig til þijn/so ad eg verde þinn/og elske þig af Hiarta/og epterfylge þier. Þuiad eg er þiñ/ vegna þess ad þu hefur skapad mig/og endurleyst mig/þu sem lifer og ryker eilyflega/ A M E N.

## VII

# Ein Gømul good Bæn vm Nafned JEsu/ J huorre Christens Mans Hiarte/hyggar sig vid Nafned JEsu/ og bidur vm alla gooda Hlute.

Act. 10. Þessum bera aller Spamen vitne/ ad fyrer hans Nafn skulu aller þeir Syndaþa Fyrergiefning/ þr sem a hañ trua.

S. Bernhardus.

O Goode Jesu/ O sæte Jesu/ O Jesu sonur Mariu Meyar/ fullur Myskunar z Sañleika. O sæte Jesu/ Myskuna þu mier epter mykeleik Myskunar þiñar. O millde Jesu/eg bid þig fyrer þitt Dyrmæta Blood/huort þu uthelltir a Krossens Tre/ fyrer oss Auma Synduga Meñ/

Meñ/ tak þra mier allt mitt Ranglæte/ og fyrerlyt ecke mijna Bæn.

Sia/ Eg ækalla þig audmiuklega og tilbid þitt allra Heilagasta Nafn/ JESUS. Oh: sæte JEsu/ Huorsu huggunarsamlegt er þitt Nafn? Oh: Millde JEsu/ Huorsu Dyrdlegt er þitt Heite? Huiad JESus er ecke añad enn Lausnare/ Frelsare/ Sæluhialpare. Þat þyrer þu Goode JESu/ sem mig heþur skapad/og mig heþur med þijnu Dyrmæta Bloode Frelsad/ læt mig ecke Fordæmast/huern þu af engou Efne skapoder. Oh: Goode JESu/ læt ecke mijnar Misgiorder glata mier/huorn ad Almatt lig Giæska þijn giorde hier.

Oh: Goode JESu/Afijttu þad med mier sem þitt er/ eñ afmæ og burt tak þu þra mier allt þad sem illt og añarlegt er. Oh: millde JESu/ Myskuna þu mier æ medañ Myskunar tijmeñ er/ og glata mier ecke æ Tijma þijns Hrædelega Doomš. O Goode JESu/ Eñ þo eg aumur Syndare haþe þorþient og Verdskulldad med riettu eilijþa Kvøl og Þijnu/

nu/sokum miñ þungra Synda/þa Appellera eg nu fra Riettlæte þijnu/ og skyt mijnu Mæle til þiñar Omælelegrar Myskunar/ suo ad þu Myskuner mier/so sē Milldur Fader og DROTTeñ.

Þuiad/huert gagn hefur þu þar af DROttiñ/þott eg Fordæmest? Þuiad ecke lofa þeir Daudu þig/og eingeñ af þeim sem nidur fara til Heluijtis. O þu Myskunsamaste JESu/Myskuna mier aumum og Syndugum. O þu allra sætaste JESu/ frelsa mig. Oh Goode JESu/ Lyknsamur vertu mier aumum og Syndugum. O JESu/ læt mig koma j Tolu þiña vtvaldra Maña.

O JESu/ Hialpeñ allra þeirra sem vona a þig/ Myskuna þu mier. O JESu/ sem ert Lausnare allra þeirra sem trwa a þig. O JESu/ sem ert Fyrergiefning allra miña Synda. O JESu Mariu Son/ helltu yfer mig þiñe Nad/Speke og Kiærleika/Elsku og Hreinlijfe/Hlijdne og Lytelæte/so eg kuñe j ollum Mootgange/ ad hafa Þeilaga Þoleñmæde/ þig fullkomlega ad elska/og

J þier ad Glediast og fagna ad eilijfu/
AMEN.

## VIII

## Ein good Bæn til Guds son ar/ j hvørre ad madur jatar og vidurkienner Herrans JEsu Velgiørninga/og huggar sig hiartanlega vid þa.

Gen. 37. DRotten/ minne er eg allre þisse Myskunsemd/og allre Trygd/ sem þu veitt hefur Þræl þÿnum.

Narmagr. Jerem. 3. Myskun DROTTens er þad/ ad vier erum ecke aller eydelagder og hans Giæska hefur øngvan Enda.

Augustinus.

HErra JEsu Christe/ minn Lausnare og minn Gud/ Þu hefur skapad mig/ þegar eg var eckert/ Þu hefur endurleyst mig/ þa eg var Glatadur. Jaa/ af øngvø hefur þu skapad mig. Þu hefur ecke lated mig verda Fugl nie annad Ferfætt skynlaust Kvikinde/ helldur eina Manneskiu/og hefur gefed mier Lijf z Aund/skyn og skilningarvit.

Og þa

Og þa eg var tyndur og tapadur/ þa kom mistu aþ Himnum oþañ miña vegna/ þu Odaudlegr til hins daudlega/ og heþur teked a þig Hollð og Blood/eins og eg heþe/ ert þyrer mig Daeñ/og heþur sigrad ≠ yþerunñð alla mijna Ovine. Og med þessum hætte heþur þu giefed mier aptur Lijþ og Heilsu/ og alla Tijma heþur þu lated þijna Nad ≠ Myskun vera mier til reidu.

Þu heþur og einneñ j mørgum Hañkasemdum/ mig þødurlega verndad og vardueitt. Þu lætur eñ ecke aþ/ ad veita mier Mat og Dryck/ og alla Atvinnu/og ad lata kieña mier/ og Hugga mig. Þu synet mier þitt Hiaspræde/ og lætur mig vita huørneñ eg a Christelega ad Liþa og Deyia/suo eg Sæluholpeñ verde. Hier um ætte eg jaþnlega ad hugsa/ og hier þyrer ætta eg þier ad þacka aþ øllu mijnu Hiarta.

Miñ Gud/ Huørsu hæleiter eru þijner Velgiørningar mier til Handa? Eñ miøg lijtels hetþ eg þa ackrad/og ecke eina Þøck þier þyrer þa gollded.

Þu heþur skapad mig þagrañ ≠ þurdulega agiætañ/ eñ huørsu añarlegur og Herþelegur er eg vordeñ. J Syndeñe er eg Gieteñ og Fæddur/ Eñ med þijnu Bloode hetz þu mig hreinsad og þueiged og helgad / eñ eg heþe vered Athugalaus/ og heþe daglega saurgad mig og þleckad mz mijnum Ivolum Syndum.

O þu Synd/ Huørsu audvelldlega kiem

ur þu' jñ? Synd/ Synd/ Huørsu sæt ertu eitum Sæl ausum Mañe? Eñ huørsu Andstiggeleg/Guðvirdeleg ertu þyrer Gude? Huørsu aumleg eru þyn Ætpelot? Huad þr' ædelegt verdur þitt Hegndarstraff.

Aurq mig aumañ Syndara/ Huørt skal eg þara? Huar vil eg blyþa? Huør vill þrelsa mig? Huør vill þuo og hreinsa mig aþ øllum mynum Syndum?

O Herra Jesu Christe/ þu allra liuþaste Lausnare/ til þyn vil eg þara/ þyrer þier jata eg allar mynar Synder/og hyl ecke myt nar Misgiørder.

Ad vysu miñ Herra JEsu/ Huar þyrer ertu komeñ j þeñañ Heim? Huad heþur þu vid Heimeñ giørdt? Huar þyrer ert þu dateñ? Þu ert dateñ ad søñu vegna vorra Synda/ og ert komeñ ad giøra alla auma og Syduga Sæluhoolpna/ æ medal huørra eg er hiñ hellste og stærste.

O Jesu þu Heimsins Lausnare/ verktu og eirneñ miñ Lausnare/Þar þyrer heitter þu JEsus/þad er Frelsare/ Sæluhialpare. Hialpa mier aumum Syndugum/og þyrergieþ mier allar mynar Misgiørder. Þu ert myn Hialp/ og þu heþur ecke Gyrnd a miñe Glötun. Drottneñ græd þu myn Samvitsku Sær/ og hugga Sorgþulla Sælu myna. Þu ert ad vyssu

ad vÿssu miñ Endrlausnare/ a þier er allt mitt Traust/ oll mijn Von/ þier a hend ur þel eg alleina Lijþ og Sal/ j Lijþe og Dauda. Miñ Gud/ giør vid mig epter þiñe mykellre Myskun/ bæde nu og ad Eilijþu/ A M E N.

## IX

## Eñ ein Agiæt Bæn/ til ad

### hugleida Herrans Jesu Christi Vel giørninga/og ad vppueckia sig til Packlætis og tilreida sig ad jñganga med Christo j eilijþañ Føgnud.

Psalm. 103. Lofa þu DROTTenn Sæla mijn/og gleym ecke þui gooda sem Gud heþur giørdt þier/ Hañ sem fyrergieþur þier allar þijnar Synder/ og læknar allañ þiñ Siukdoom. Hañ leyser þitt Lijþ fra Gløtuneñe/ z krynner þig med Nad og Myskun.

Augustinus.



yn Sal/giæt ad og Hugleid huþ ersu Vegsamleg þu ert. Sia þu/ DROTTeñ miñ Gud heþr skapad þig epter siñe Mynd og aþ Nad siñe heþur hañ utval

ed þig sier til Barns. Jesus Christus hefr þig med synu Bloode endurleyst/og bundid Tru vid þig. Gud Heilagur Ande/ hañ er þier gieffeñ/til ad vera þier sañarlegt Merke og Pantur eilyffs Lyffs.

So hæleitlega hefur DROTTeñ þinn Gud prydt þig/ So Dyrdlega hefur hann giørdt þig/so ad þu munt a þeim Deige lyk vera hans heiløgum Einglum.

Þar fyrer Sæl myn/snu þu þier ad hønum/ sem þig hefur suo elskad. Leita hañs sem epter þier hefur leitad. Þioona þu hønum/ sem þier hefur þioonad/ Elska hann sem soddañ ast haffdt hefur til þyn/ hann hefur elskad þig fyrre/ og tilbwed þitt Hiarta suo þu mætter Elska hañ. Jaa/ hañ er Upphaf og ender þinnar Velferdar.

Astunda þu og eirnen Sæl myn/ad hafa Kiærleik til Naungans/ ber Harm med Sorgfullum / vertu hrein med þeim Hreinu/ Heiløg med þm̃ Heiløgu. Þuiad so sem DROTTENN GUD þiñ finnur þig/ so mun hann dæma þig. Hann er godur og Giæskufullur og þolenmoodur/ og vill syn Børn hier a Jørdu sieu og eirnen vingiarnleg/ good og Giæskuryk og Hoogrær / og Myskunsam. Myn Sæl / haf þyna lyst i DROTTNE / sem þig leyst og frelsad hefur / fra eilyfre Eymd og Glötun/ haf þu hann og hallt fyrer þiñ besta Vin/ so leinge sem þu lifer / þuiad þa þu hlytur ad skiliast vid alla Hlute / þa mun hann vera

vera hia þier. Einkanlega at þinne Dandastundu/ þegar aller þijner Viner eru langt fra/ þa yfergiefur hann þig ecke/ hañ mun geyma þyn fyrer þui grenianda Leon ne/sem þig vill þa vppsuelgia/ og hañ mun leida þig inn i þa himnesku Jerusalem/ og setia þig fyrer sitt Dyrlega Auglit/ þar e d þu munt med heilögum Einglum hönum ef lyflega lofsyngia / seigiande/ Heilagur/ Hei lagur/ Heilagur/ er DROTTEJNN GVD Zebaoth/öll Jørdenn er full hans Dyrdar.

Minn GVD / huilijkur Fagnadar saung gur mun þar vera? Huad stor Vnadsemd z Fagnadar hliomur mun þar heyrast? Huør su fagurlega og sætlega munu Menn þar GVD lofa og vegsama og syngia eilijft Halleluja. Huor kañ vt ad skyra edur tal la þa ovmrædelegu Glede/ þann oseigianlet ga Fögnud þa yfergnæfanlega Himeryk is Dyrd. Huør kann ad mæla edur meta þa yfergnæfanlegu Vnadsemd / Lyst og Glede eilijfrar Farsælldar sem þu munt þar fa og ødlast/ min Sæl.

Minn HErra JESV hialpa þu mier/ so ad Sæl mijna lange oaflæetanlega epter soddan Glede/ og ad hun daglega æstundan hafe inn ad komast i þa himnesku Jerusa lem/huor ad suo er Heilög og Dyrleg/ i hu orre ad eilijf Fagnadar Hatijd hallden verd dur/ oendanlega.

Minn GVD/vpplys og kendra Niar-

